# Leikrit

og

## Nokkur ljóðmæli

# Sigurðar Péturssonar

fyrrum sýslumanns í Kjósar og Gullbringu sýslu.

## Síðari deild.

Reykjavík 1846.

Prentað í prentsmiðju landsins á kostnað E. Jónssonar,
af H. Helgasyni.

Samkvæmt lofordi mínu byrtast hér nú á prenti leikrit Sigurdar sálunga sýslumanns Péturssonar ásamt þeim litla vidauka vid kvædi hans, sem prentud voru í hitt ed fyrra, er jeg sídan hefi komist yfir; og er þannig lokid øllum ljódmælum skáldsins, sem feingist hafa til prentunar.

Af æfisøgu skáldsins, sem hér á eptir fylgir, og samin er af herra stiptprófasti Arna Helgasyni, sér lesarinn, ad leikritid „Brandur“ eda „Bjarglaunin“, ekki er eptir sýslumann sál. Sigurd Pétursson, heldur er samid af biskupi Geir sálunga Vidalín; enn bædi er leikrit þetta svo snoturt í sjálfu sér, ad þad á maklega skilid ad því sé á lopt haldid, og þegar svo er, þótti þad eiga vel vid ad þad yrdi samferda þessum leikritum, þar sem þad, einsog æfisagan sýnir, á kyn sitt ad rekja til sømu orsakar og þau; enda mundi skáldid sjálft med glødu gédi hafa unt þessu leikriti vinar síns sætis hjá sínum eigin ritum.

Utgáfu þessa hefi jeg viljad vanda einsog eg hafdi betst faung á, og þó geing jeg ad því vísu, ad í mørgu hefdi mátt betur vera enn ordid er.

Andlitsmynd skáldsins, sem jeg hefi getad komist yfir, læt jeg fylgja deild þessari, og þykir mér líklegt ad mørgum muni þykja ánægja ad því ad geta med þessu móti komist í kunníngskap vid þann mann, sem med kvædum sínum stytti þeim svo opt stundír. Þannig hef jeg, kæru landar! gjørt ydur þá grein fyrir þessum starfa mínum, sem mér þótti hlída, og bid ydur nú ad lyktum ad virda á hægra veg.

Reykjavík í April-mánudi 1846.

**Útgefarinn.**

# Yfirlit.


Leikritið Hrólfur . . . . . . . . . . . . . bls. 1— 60

— Narfi . . . . . . . . . . . . . . . — 61—152

— Brandur . . . . . . . . . . . . . — 152—160

Viðbætir . . . . . . . . . . . . . . . . . . . — 161--183

## Ágrip æfisögu
## Sigurdar sýslumanns Péturssonar.

Þad er ekki ætíd svo hægt, eins og þad er skyldugt, ad halda uppi minníngu merkismanna; því þad eru skjaldan merkismenn, sem láta sér mjög annt um, ad vidhaldist minníng verka sinna, enn verkin lýsa hvorjum betst; og þad er reglan, ad vinstri höndin viti ekki hvad hin hægri gaf. Þó hér komi nú á prent, nokkurskonar ágrip af æfi Sigurdar sýslumanns Péturssonar, þá er þad meir af vilja enn mætti ad þetta ágrip er samid, því sá sem ritar þad, var ekki svo kunnugur þessum merkismanni, eins og sá þarf ad vera, sem þesskáttar starf tekst á hendur. Bót er í máli, ad til er á prenti ágrip af æfisögu födur Sigurdar, Péturs Þorsteinssonar, sem Arni prestur Þorsteins-

son á Kyrkjubæ samdi, og lét á prent útgánga á sinn kostnad 1820. Í þessu æfisögu ágripi eru upptalin, eptir aldri, börn Péturs sýslumanns, og Sigurdur kemur þar seinastur, því hann var ýngstur, og einungis med þessum ordum: „Sigurdur, fæddur 1759, fór fyrst med fodur sínum til Kaupmannahafnar 1768, sigldi aptur þángad 1774, þá hann var inntekinn í Róiskéldu skóla, hvadan hann útskrifadist 1779; stúderadi því næst nokkur ár vid háskólann, og tók Attestats, med karakteri **Laudabili**; fékk þar eptir Kjósarsýslu 1789, hvorri hann af sér sagdi, sökum óhreysti 1801, enn fékk algjorlega lausn frá embættinu í nád 1803. Hann lifir enn í Reykjavíkur kaupstad embættislaus og ókvæntur"

Vid þad sem hér er sagt um veru Sigurdar sáluga vid háskólann, hefur höf: ad eins litlu ad bæta, nema því, ad hann lauk sér af um vorid 1788, einsog ad ofan greinir, med bestla vitnisburdi. Enn ad hann líka hafi átt þann vitnisburd skilinn, má ráda af því, ad kennarar hans vid háskólann vitna um hann, ad hann hafi verid einhvorr af sér samtída efnilegustu stúdentum. Framanaf stundadi hann einkum málfrædi og söguvís-

indi, og var hinn nafnfrægi Abraham Kall kennari hans í þeim vísindagreinum; og svo var hann ordinn vel ad sér í málfrædi, þegar hann fór ad lesa lög, ad nefndur merkismadur i vitnisburdi þeim er hann gaf Sigurdi 1783, segist mega fullyrda: „ad einginn af þeim æskumönnum, sem þá séu vid háskólann og stundi lögvísi, standi honum jafnfætis í málfrædi". Sami madur ber um Sigurd sáluga 1789 aptur þeim ordum: „jeg hefi haft nákvæm kynni af Sigurdi medan hann var vid háskólann, þvi hann var mér handgeinginn, og jeg veit þvi hvad jeg ber med um hann;" og þvínæst segir hann: Sigurdur hefir allajafna verid stakur sidprýdis og bóknámsmadur, enda er hann ordinn bædi betur ad sér og fjölhæfari í þekkingu enn venja er til, og má því med öllum rétti telja hann med þeim stúdentum, sem eru betst mentadir; meiri dánumann enn hann er, geta menn hvorki hugsad sér né óskad". Ad hinu sama hníga og þeir adrir vitnisburdir háskólakennaranna er hof: hefur komist yfir, vidvíkjandi Sigurdi sýslumanni medan hann dvaldi vid háskólann, enn því er hins ofangreinda merkismanns vitnisburdur tekinn

fram, að Sigurður bæði var honum handgenginn, og sá er vitnisburðinn gaf, ekki var í lífinu sagður neinn skrummaður.

Viðvíkjandi föðurætt sýslumanns Sigurðar, má nægja að geta þess, sem stendur á fyrstu blaðsíðu, í áminnstu æfisögu-ágripi föðursins, hvar þannig er tekið til orða: „að upptelja alla þá stórgöfugu höfðingja, sem sýslumaður Pétur Þorsteinsson átti kyn sitt til að rekja, mundi útheimta oflángan tíma; þess gjörist ei heldur þörf, þar ætt hans er áður fullkomlega rakin, og greinilega samin, af þeim hálærða, ættfróða og ódauðlega biskupi, **Doctor** Hannesi Finnssyni, hvorja hann skrásetti í Kaupmannahöfn 1775, og af hvorri stutt ágrip er innfært í hina prentuðu æfisögu föður hans, Þorsteins sýslumanns Sigurðssonar".

Enn hvað móðurætt sýslumanns Sigurðar Péturssonar áhrærir, þá er hún þannig rakin af prófasti Arna Þorsteinssyni, blaðsíðu 2—3, í áðurnefndu æfisögu ágripi: Árið 1746 hafði sýslumaður Pétur sálugi, inngeingið heilagan ektaskap með júngfrú Þórunni Guðmundsdóttir frá Kolfreijustað, Pálssonar prests sama staðar, og prófasts í Múla

sýslu, Ásmundssonar. Móðir Þórunnar, og ektakvinna Guðmundar Pálssonar, var hin góðfræga höfðingskvinna Þórunn Pálsdóttir, prófasts og prests að Valþjófsstað, Högnasonar. Ektakvinna Páls prófasts Högnasonar, var Þóra, dóttir ens nafnfræga skálds Stephánus prófasts í Vallanesi Olafssonar, prófasts í Múla þingi, og prests að Kyrkjubæ í Hróarstúngu, Einarssonar Officialis og prests að Heydölum, nafnfrægs skálds og ættsælasta manns. Auk þessa fáa, sem getið er um föður og móðurætt Sigurðar sýslumanns Péturssonar, í nefndu ágripi, má þess minnast, að eins og einginn, og síst sá sem þetta ritar, getur um það efast, að Sigurður einsog faðir hans, hafi verið kominn af stórgöfugum höfðingjum, er hitt eins víst, að hann í móðurætt sinni gat talið til nokkurra mestu gáfumanna, sem verið hafa á þessu landi, svo sem ættfeðra, eptir því sem hér að framan er ávikið. Ekki þykir heldur ólíklegt, að þeir sem lesa verk Sigurðar, sem nú koma á prent, og vit hafa til um að dæma, samt vilja til að unna honum sannmælis, geti í vonirnar, að hann einhvorstaðar hafi erft þær gáfur, er verk hans bera um svo óbrigðult vitni.

Þetta fáa, auk þess sem hér er ad framan getid, vita menn um æfi Sigurdar, ad hann kom til háskólans frá Hróarskelduskóla, sama haustid sem Geir Vídalín, er sídan vard biskup. á Islandi, kom frá Hóla-skóla, árid 1779. Urdu þessir tveir íslendingar fljótt málkunnugir, og tóku saman herbergi á Regentsi. Þá hafdi Sigurdur ad mestu leiti týnt nidur íslendsku máli; vid skáldskap hafdi hann ekkert feingist, og af Eddu vissi hann ekkert ad seigja; og til þeirrar islendsku glímu mundi hann ekkert. Hann hafdi líka siglt hédan úngur. Allt þetta lærdi hann á stuttum tíma af stallbródur sínum Geir, er bædi var hagmæltur og liflegur glímumadur á ýngri árum; enda minnti Geir vin sinn Sigurd, tídum á þad, ad sér ætti hann ad þakka skáldskapargáfuna og glímu frækleikinn, og þóttist ekki til litils hafa unnid, þegar Sigurdur bædi væri ordinn betsta skáld, og mikill glímumadur. Sigurdur taldi aptur til skuldar hjá Geir fyrir þad hann hefdi gjört hann ad biskupi, er hann þess vegna þakkadi sér, ad þegar þeir voru saman vid háskólann, hafdi Sigurdur kennt honum hebresku, án hvorrar einginn getur ordid biskup; enn ekki var hebreska um

þad leiti kennd á Íslandi; Sigurdur hafdi lært hana í Hróarskelduskóla.

Medan þessir tveir merkismenn voru vid háskólann skildu þeir aldrei nema um tíma, þá Sigurdur tók ad sér kennslu únglinga í húsi Kastenskjolds, födur þess Kasterskjolds, sem var um nokkur ár stiptamtmadur á Íslandi, en sáladist á Fjóni, sem stiptamtmadur þar, árid 1843. Þar festi Sigurdur ei yndi, hvar um þad ljódabréf, er hann skrifadi vin sínum Geir, og finnst í kvædasafninu blś. 232 og fl., ber ljósast vitni.

Þegar Geir Vídalín fór inn til Íslands, og skommu seinna vard prestur í Reykjavík, vildi svo til ad Kjósarsýsla losnadi; var þá Sigurdur ei leingi ad hugsa sig um ad sækja um þad embætti, er sýndist gjora honum kost á, ad sjá, ad minnsta kosti vid og vid, vin sinn Geir. Fyrsta árid eptir þad Sigurdur kom út híngad, var hann í brandi formanns síns í embættinu, Vigfúsa Thorarensen, er þá bjó í Brautarholti, enn fluttist næsta vor austur ad Hlídarenda. Þá fór Sigurdur ad vistum til Rectors Gísla Thorlacius í Reykjavík; enn þegar Gísli vard ekkjumadur 1795 fluttist hann í hús landlæku-

is Jóns Sveinssonar, er bjó í Nesi vid Seltjørn, og var giptur Gudrúnu systur Haldórn Sigurdardóttur Thorlacius; þar var hann þángad til Jón læknir dó, árid 1803. Þar eptir fluttist hann til síns aldavinar Geirs, sem þá var ordinn biskup, og var med honum upp frá því, fyrst á Lambastødum, og sídan í Reykjavík, þartil biskup sáladist 1823, og svo hjá ekkju hans, frú Vidalin, þángadtil hann sjálfur þann 6ta apr. 1827 andadist; hafdi hann allan sinn aldur, frá því hann kom inn til Islands, verid þjádur af fótarmeini, sem mælt er hann fyrst feingid hafi af meidslum, þá skathol sleingdist á fót honum, vegna þess þad skrapp úr hendi þess er bar þad móti honum milli húsa í Kaupmannahøfn. Vid þessu meini leitadi hann allrar møgulegrar lækningar, og medal annars var reynt ad lækna hann med því, ad vega honum út daglega klenann matarskamt um vissan tíma, og þá hraut honum af munni vísan: „Þú soltna tíd er mín tannar bein, o. s. frv. bls. 265". Jón landlæknir og Sveinn læknir Pálsson, vildu fyrir hvorn mun reyna þá lækningu vid Sigurd, sem um næstlidin aldamót, var haldin bót margra meina, og er

haldin svo máske enn; þeir vildu treina og hréssa líf þess manns, sem hressti og gladdi med sinni gáfu svo opt bædi þá og adra, er hann tilnádi; enn þetta hjálpadi ekki; mein-semdin og þaraf leidandi veikleiki fór í vøxt med árunum, svo þad mátti heita sem Sig-urdur væri dáinn ádur enn hann dó, þvi á fótum var hann seinasta daginn sem hann lifdi, og fór med hressu sinni burt af heim-inum; gleymdi samt ekki ádur ad þakka Gunn-ari, nú presti á Laufási, er verid hafdi Sig-urdi alla tíd samtida í húsi biskups Geirs, fyrir hanns nákvæmn adhjúkrun og vidgjørd-ir fótarmeinsins, þessi morgu ár sem saman høfdu verid. Gunnar fylgdi Sigurdi til rúms, venju framar hrumum; enn um þad leiti sem Sigurdur afklæddist, yfirþirmdi honum; Gunn-ar, sem hafdi gott vit á lækningum, leitadi þeim veika líknar; enn Sigurdi vard þetta ad ordum: „vertu nú sæll, Gunnar minn! jeg get þad ekki leingur, jeg þakka þér fyrir“. Þetta sé nú nóg um kjør og lífskringum-stædur Sigurdar, ad svo miklu leiti sem jeg þekki þær. Grafskrift ritadi honum amtmad-ur B. Thorarensen, hana hef jeg ekki séd, enn úr henni frétt þetta eina: „hans ríki var

ekki af þessum heimi"; mátti það með sanni seigja, að hann girntist ekki auðlegð, vildi ekki við búskap fást, og var hófsmaður um hvorn hlut; orðlagt er hvað linlega hann gekk eptir sínum tekjum meðan hann var sýslumaður, hvað lítið honum var annt um auð þann, sem hann erfði eptir föður sinn, sem hafði verið auðmaður, og hvorsu hann var fús til að miðla við vini sína og náúnga því sem hann mátti afsjá. Fyrra part æfi sinnar var hann gleðimaður mikill, jafnvel eptir það hann var orðinn bilaður á heilsu og hingað til lands kominn. Á efri árum lífsins var hann heldur fálátur, og máske stundum ei frí fyrir amasemi í lundinni, er eingum mun þykja tiltökumál, sem gáir þess, að hann aldrei var heilbrigður maður, enn þótt ekki alljafnt þjáður af veikindum; enn jafnvel á hans seinni árum gat hann orðið vel glaður, þegar af honum bráði, og hugurinn fékk ráðrúm til skemtilegra hugsana. Samtal við gáfaða vini lífgaði hann með sinni fyndni. Hans tillögur í samtalinu, sem ætíð voru náttúrlegar og óþvíngaðar, voru heldur enn ekki stilaðar til skemtunar, og því heldur sem færri og kunnugri menn hlýddu á; við alla ókunn-

uga var hann í fyrstu fálátur, enn syndi hann gáfur og gódan þeinkingarhátt fyrir, vaknadi hann fljótt og vard þeim strax eiginlegur og alúdlegur. Meiri trygdamann hafa menn traudlega þekkt nú í margar aldir; og varla muni dæmi upp á innilegri vinskap á seinni öldum, enn milli hans og biskups Vídalíns; enn ekki gat hann verid allra vinur, sem líka einn gilti.

Þared nú stendur til ad andlitismynd hans sjáist af þeim uppdrætti, sem verdur samfara hans gledispilum, er verid er ad prenta, vil jeg ad eins geta þess, ad hann var medalmadur á hæd, og eptir því þéttvarinn; hann var sterkari enn hædinni samsvaradi, snar og lipur í öllum hreifingum, ennid hátt og augun fögur og blidleg.

Gáfur hans, lærdóm, og ad nokkruleiti þeinkingarhátt, má gjøra rád fyrir ad flestir geti þekkt af hans verkum, sem nú koma á prent. Þess vil jeg ad eins geta, ad bædi þad sem hann ritadi í ljódum, og eins hans gledispil, voru í flýti samin. Skáldid hefir sjálft í mannsaung seinustu Stellurinnar lýst því, hvornig kvædi hans eru tilordin; enn gledispilin samdi hann med mesta flýtir. Læri=

sveinar í Reykjavíkurskóla feingu hann til þess, og mun vinur hans, Geir biskup, hafa í þeirri grein lagt til með þeim, við vin sinn; sjálfur skrifaði hann það fyrsta gleðispil, sem í skólanum var leikið, og heitir Brandur, fyrir þá.

Sá siður fluttist forðum með skólanum í Reykjavík, að eptir að búið var að skipa lærisveinum í sæti á hvorju hausti, héldu þeir nokkurskonar gleði-hátíð; og var það þá haft til gamans að krýna þann sem efsta sæti hlaut í skólanum, sem skólans konúng; og frá Skálholti kom með skólanum til Reykjavíkur, kórónа, veldissspira og ríkisepli, stjórnarinnar einkenni; sem þessi skólans konúngur tók á móti á sínum krýningar degi; um leið voru tilsettir embættismenn. Meðan skólinn var í Skálholti, voru ei kosnir aðrir embættismenn heldur enn stiptamtmaður, biskup og dómendur. Þennan sama dag, var skylda biskups að prédika, og þaðan er sprottin sú prédikun, sem alkunnug er hér í landi, og heitir Skraparotts prédikun, er ekki er óskemtilegt að lesa hana, því hún lýsir fjöri í hugsan og reglu í þánkagángi, sem vantar í marga prédikun.

Þessi siður mun ei hafa þótt við eiga þegar skólinn var kominn í kaupstað; og þó

krýningin vidhéldist, ad minsta kosti fram á næstlidin aldamót, var prédikuninni sleppt, enn í hennar stad komu þessi gledispil. Þá voru og valdir ædstu rádherrar — enn ekki háir embættismenn, svo sem: utanríkis rádherra, Cancelleri, Dróttseti, o. s. fr.

Og af því ad sú franska stjórnarbilting var um þau ár ad enda, þótti vel vid eiga, ad sá sem valinn var konúngur, segdi af sér sama daginn sem hann var krýndur, til þess þjódin feingi ad njóta þeirrar gledi ad stjórna sér sjálf.

Þannig eru þessi gledispil tilordin, og sannast þá, ad til hvorrar søgu verdur ad bera nokkud.

Hvad nú vidvíkur útgáfu bædi ljódmælanna og gledispilanna, þá eru þau prentud eptir beztu handritum sem feingist hafa. Þrjár fyrstu Stellurímur, í því handriti sem brúkad var, eru med hendi landlæknis Jóns Sveinssonar; hafdi hann byrjad ad skrifa þær upp fyrir konu sína Gudrídi, enn komst ekki til ad halda áfram, eda nennti því ekki. Þá tók skáldid vid, og er hans hønd gløgg og med gódum adgreiningar merkjum; eptir þessu handriti eru rímurnar prentadar. Mørg af

þeim leingri kvædum, og rimnabrotid eru og prentud eptir skáldsins handriti. Sigurdur átti eptir sig, þegar hann sáladist, ekki eina bogu skrifada af því er hann hafdi ort. Ekki hafa heldur gledispilin feingist med hans hendi; enn margir voru búnir ad skrifa þau upp, og meir eda minna af kvædunum, t. a. m. séra Gunnar, hvors ádur var getid, Haldór Arnason, apótekarasveinn, og Sigurdur landfógeti Thorgrimsen, samt margir fleiri; því flestum sem heyrdu og gott skynbragd höfdu, þótti mikid tilkoma.

Þess er loksins ad minnast, ad útleggíng einstakra orda í Stellurímum, sem stendúr undir textanum, er skáldsins verk.

Merkilegt er þad, ad almúgamadur verdur nú til ad koma á prent þessum ritgjördum, sem sked gat ad týnst hefdu, ef leingur hefdu flækst manna á milli, og kunna víst margir honum þökk fyrir, sem ádur höfdu notid yndis og kannske líka uppbyggíngar, af ritum Sigurdar.

## Þeir, sem leika, eru:

Audun, bóndi og løgréttumadur.

Sigrídur, kona hans.

Una, dóttir hans.

Margrét, vinnukona.

Hrólfur, ferdamadur ad nordan.

Gissur, rádsettur bóndi frá ødrum bæ.

Andres, sonur hans.

Jón, bóndi frá Heidarkoti.

Jón Grimsson. }<br>Bjørn Hallsson. } stefnuvottar.

Eirikur á Aumalæk, fátækur bóndi.

# Fyrsti þáttur.

## Fyrsta atridi.

### Margrét

(einsömul, kemur inn med ljós í hendinni.)

Þetta er einn blessadur rokkurssvefn; húsbændurnir eru enn þá ekki vaknadir. Væri ekki sofid í rökkrinu, þá væri vinnufólkid illa farid, því þad er sá einasti tími, sem þad getur gjört sér litinn hagnad og skemtun þess á milli, þegar þad er frí frá argi og ánaudum. Væn eru jólin, og satt er þad, vegna kertisins, enn rokkrid er min hátid; þá forsómar hún Mánga litla sig ekki, og eitt skikkanlegt og trútt vinnuhjú, eins og jeg er, (fær hósta) getur þá geingid sín eigin eyrindi án húsbændanna vitundar og skada (fær aptur hósta), jeg gat þó núna brugdid mér út í hjáleiguna til hans Jóns mins, og gladt hann dálitid med minum rokkurshandabla. Mér þykir ekkert ad honum, nema hann er of einfaldur og deigur; enn vorkun er á því, hann hefur ekki verid á stórstodunum, eins og jeg; enn jeg skal skjótt koma honum í tána, og þegar vid erum komin saman, þá skal jeg . . . (heyrist barid.)

## Annad atridi.

### Hrólfur og Margrét.

(Madur sprángar inn á nýum museusøtum; sokkabønd, med laungum dinglandi skúfum, hefur hann um sætur; upp úr vasanum hángir lángt talnaband úr pýngju hans, eins og úrkedja.)

**Hrólfur.**

Med leyfi þeirra, sem med eiga, sælar verid þér, heillin góð! alla tíma blessadar og sælar!

**Margrét.**

Sælir verid þér! hvors heitir madurinn?

**Hrólfur.**

Hrólfur heitir hann Asgrímsson ad nordan. Jeg vildi koma mér fyrir hér sydra til útródrã; jeg hef farid hér sudur á hvorjum vetri; jeg hef verid formadur í øllum veidistødum hér sydra, bædi undir Eyafjøllum, í Grindavík, á Bátsendum, í Keblavík, í Njardvík, undir Stapa, í Gardi, á Strøndum, og vídar og vídar.

**Margrét.**

Þetta kalla jeg almennilegan mann!

**Hrólfur.**

Já, ekki hefur hann húsbóndi minn stórum vænni mann vid sjóinn; enn þegar jeg kem heim, er jeg smidur hjá honum, og núna, ádur enn jeg fór á stad, smidadi jeg nálarnar þær arna sem snoggvast; (sýnir Margrétu.)

**Margrét.**

Já, þad sé jeg, þær eru almennilega nettar; hann Tómás okkar gjørir þær ekki hálfst svo vel; hér eru

nú silfurupphlutsmillur, sem hann hefur smídad (sýnir Hrólfi, sem vandlega hyggur ad.)

Hrólfur.

Já, já, þad er íslendskt víravirki, og sá ad vera filagran upp á hádønsku, og svona fer jeg ad því: fyrst slæ jeg plötuna speigilfagra, sídan tek jeg gull- eda silfur-vír, og set um kring á plötuna, rétt eins og svoluhreidur, og festi svo alla endana saman med smáþornum, þúsund sinnum smærri, enn sandur, læt svo allt fyrir ablinn, og læt sjóda saman.

Margrét.

Jeg ætladi þad mundi eiga ad lódast.

Hrólfur.

(Litur undan.)

Já! lódast, lódast, vildi jeg sagt hafa; (afsídis) þar hafdi jeg nærri farid á mig med lódid; (hátt) millurnar þær arna sóma ekki svo fallegri stúlku, enn upphlutssnidid er fallegt.

Margrét.

Æ! hann er ofur vidur. Er madurinn ógiptur?

Hrólfur.

Já, enn gjørid svo vel, og gèfid mér nokkud ad drekka.

Margrét.

Hér er ekki gestum gefid annad enn vatn, ad drekka; og vid vinnuhjúin fáum ekki annad heldur; enn vegna minna handyrda gét jeg stundum útvegad mér hitt og þetta (likur upp kistli sinum, og tekur upp brennivíns-pela) Hér er nú dálitid á einum jómfrúrpela, súptu á, og forláttu, þó jeg þúi þig; jeg held vid mundum fljótt verda kunnug, ef vid værum leingi saman

á bæ; enn hér ætla jeg ei leíngi ad binda skóþveingi mína; því fólkid er nýtskt og audtrúa; og sá hefur betst úr býtum, sem betst gétur sladrad fyrir því og borid fréttirnar.

Hrólfur.

Þá þekki jeg sjúkdóminn, og get líka læknad hann.

Margrét.

Æ! ertu líka læknir, heillin mín?

Hrólfur.

Það ord fékk jeg fyrir nordan, ad jeg væri nógu gódur blódtökumadur.

Margrét.

Flest er þér til lista lagt; enn nú heyri jeg til fótanna á húsbændunum, vertu nú málugur og mjøg fréttafródur, fátt satt, enn flest lýgi, jeg skal kenna þér.

## Þridja atridi.

Þau fyrri, Audun, Sigrídur og Una (koma inn).

Hrólfur.

Sælir og blessadir, Audun minn! sælar og blessadar, heillin góð! sælar og blessadar, Una mín! prestúrinn óskadi ykkur øllum góds.

Audun.

(Lágt.)

Hvor er þessi madur?

Margrét.

(hálflágt.)

Hann kom núna rétt strax á þessu augnabliki; hann héfir verid formadur í øllum veidistødum; hann er heppnismadur, hann er fiskilús!

Audun.

Hvadan kom hann?

Margrét.

Hann er rádsmadur fyrir nordan; hann stendur þar fyrir öllum verkum á heimilinu; hann er forstjóri og búsýslumadur betsti.

Audun.

Hvad heitir hann?

Margrét.

Hann er dverghagur; betsti gullsmidur, gjörir silfur, og lódar filagran.

Audun.

Jeg spyr, hvad hann heiti.

Margrét.

Hann er allra betsti blódtökumadur, og ógiptur.

Audun.

(bislur.)

Þegi þú, Mánga! hvörs heitir madurinn?

Hrólfur.

Hrólfur heitir hann Ásgrimsson ad nordan (o. s. fr. eins og fyr.)

Audun.

Hvör var presturinn, sem þér heilsid mér frá?

Hrólfur.

(óviss.)

Presturinn, séra . . . já! presturinn, séra Önundur Grimsson á Breidabólstad. Hann kvadst hafa gist hjá ydur nætursakir, og þáid hjá ydur sérlegar gódgjördir; hann sagdi þér værud einn hinn mesti á Sudurlandi, og mun rómur ydar vida floginn um landid, fyrir vitsmuni og rausnarmennsku.

Audun.

Ekki kannast jeg vid séra Önund.

Hrólfur.

Pad er slikra hofdingja von og visa, sem þér erud, ekki ad látast muna til sinna stóru velgjorninga.

Audun.

Menn gjora ofmikid af minum gódgjørdum; (til konu sinnar) getur þú ekki gefid manninum hressingu, heillin?

Margrét.

(út af fyrir sig.)

Grunadi mig ekki? á! svei þvi!

Audun.

Hvar varstu í nótt, Hrólfur minn?

Hrólfur.

Jeg var herna á Heidarkoti hjá honum Jóni minum kallinum, og gjørdi hann mér vel til, eins og margir adrir.

Sigrídur.

(sem fyr var útgeingin, kemur inn aptur i þessu, og færir Hrólfi litinn pela.)

Hvad fékk madurinn ad borda?

Hrólfur.

Jeg fékk heitt, gott og feitt slátur, þvi um daginn hafdi hann slátrad fimm vetra gomlum saud.

Sigrídur.

Hvornig var hann litur?

Hrólfur.

Hann var hvitur, hnislóttur, med svortum blett á bakinu, stór, feitur, og i honum vorn 23 merkur.

Sigrídur.

Var hann ekki lagdadur, svo þú sæir?

Hrólfur.

Hann var skrúdadur á vinstra eyra.

Sigrídur.

Sástu ekki markid? mig grunar margt.

Hrólfur.

A! já já! nú skil jeg; ekki svo eg sæi þad gloggt, því mér sýndist farid leynilega med höfudid, enn þó sýndist mér ekki betur, enn þad væri hvatt bædi eyru.

Audun.

Var ekki biti aptan vinstra, svo þú sæir?

Hrólfur.

Vísast er þad hafi verid, þó jeg ekki gjætti svo graunt ad því. Þad merkti jeg, ad aungvum var um, jeg færi med hofudid. Heimaskrillinn þótti mér og svo allur ískyggilegur, og var jeg því var um mig um nóttina. Náunkar menn ogsvo til fólks, sem lifad hefur í afdolum, og búid til fjalla.

Frá afdalsbúum, frá afdalsbúum,
æ sér Hrólfur suýr;
úlfur er vid saudi,
vid ita hérinu blaudi;
þokunni undir, þokunni undir,
þad er margt, sem býr.

Margrét.

(kát.)

Hrólfur er ogsvo þad betsta skáld, hefur þau betstu og lidugustu hljód; eia værum vér þar!

Hrólfur.

Með leyfi verð jeg að gánga út, og líta til hests-ins míns. (geingur út.)

## Fjórða atriði.

(Þær fyrri persónur, nema Hrólfur.)

Auðun.

Þetta er efnilegur maður.

Margrét.

Já! það er satt.

Auðun.

Ungur, friskur, skýr og vel að sér.

Margrét.

Já! það er meir enn satt.

Auðun.

Fiskimaður góður, alkunnur formaður, og betsti smiður.

Margrét.

Já! það er hvorju orði sannara.

Auðun.

Betsti búsljórnarmaður, og lítur út til að vera hinn ráðvandasti.

Margrét.

Það er svo satt, sem dagurinn er sannur.

Auðun.

Það væri efni í góðan mann fyrir skikkanlega stúlku.

Margrét.

Það er það sannasta orð, sem þér hafið sagt í dag, húsbóndi góður! og er ógiptur.

Auðun.

Mér dettur í hug, enn hún Una litla.

Margrét.
(svo sem hvumsa.)

Jeg held hann giptist ekki hér sydra; honum munu fáar þykja sitt jafnrædi, soddan listamadur, og nord-lendskur til.

Sigrídur.

Hvad er ad heyra? þó hann sé nordlendskur, þá er hún samt sunnlendsk og lögréttumanns dóttir, og kann vel fyrir sér, þó mér sé skyldt málid, því einginn hefur sagt henni til, nema jeg. Enn hitt þykir mér nú meiri naudsýn, ad hugsa um hvíta saudinn fimm vetra, med 23 mörkum, sem þú veitst okkur vantar.

Audun.

Pad var nú þad, sem jeg var ad hugsa; glöggt sagdi Hrólfur frá, lýsti lit og marki, hæd og hornum, og fólkid varnadi honum ad skoda höfudid.

Margrét.

Og leit allt þjófslega út, sagdi hann.

Audun.

Leingi hef jeg haft Jón grunsaman, og misjafnt ord hefur af honum geingid.

Sigrídur.

Ekki veit jeg þad, enn bita aptan undir vinstra, vantadi á okkar mark.

Margrét.

Nei, nei! hann sagdi bitinn hefdi vísast verid þar, enn þad sem er vísast, þad er sjálfsagt, og er því afgjört, ad svo hefur verid.

Audun.

Þad er rétt, sem þú seigir, Mánga!

Sigríður.

Ekki tók jeg eptir því, að hann fullyrðti það, enn þó væri ei af veigi, að grennslast betur eptir þessu. Misgrip kunna að hafa skéð.

Margrét.

Já já! allur þjófnaður er misgrip, enn svo leingi hef jeg þjónað ykkur með trú og dyggð, og vaktað ykkar kindur, að mér fellur illa að aðrir steli þeim; hann hafði blett á hryggnum, lagðaður i vinstra eyra; jeg þori að gjöra minn sáluhjálpar eið.

Auðun.

O já! það er vafalaust, stolinn er hann.

Sigríður.

Ekki er það víst að öllu enn; enn viltu ekki skrifa honum Jóni seðil, og spyrja hann . . . ?

Auðún.

(hissugur.)

Hvort hann vilji ekki láta heingja sig? ó jú! sæktu strax skriffærin min, Una litla!

Una.

Jeg skal strax, faðir minn góður! enn verið þer nú ei hissugur (geingur út.)

Sigríður.

Það sama vildi jeg sagt hafa, heillin min! framhleypnin er sjaldan góð, einginn veit hvorjum trúa má; Hrólfur seigist vera norðlendskur, enn hvor þekkir til hans?

Auðun.

Annað, enn gott? hann er ráðsmaður hjá séra Önnundi á Breiðabólstað.

Sígríður.

Þeir geta nú sumir skrölvað, sem eru hjá prestunum, enn vertu ekki of berorður, heillin mín! við Jón, mundu mig um það.

Auðun.

Jeg skal passa upp á það.

Una.

(kemur inn með skriffæri og pappír, og setur á borðið.)

Hér er nú, faðir minn! . . . enn jeg er hrædd!

(Auðun fer nú að skrifa, enn Una setst við vinnu sína; allir þeigja, en Una syngur þá fyrir munni sér lágt og laglega.)

Of trúgjarn skyldi einginn vera,
ángur leingst á síðan fylgja má;
líka kann svo tíðum til að bera,
að tál ókunnum vorum renni frá.
Hyggi hvor að því, :,: sem hjalað er :,:,
:,: enn maður máli af :,:
betst manninn sér.

(Þetta itrekast svo leingi, sem Auðun er að skrifa seðilinn, enn þegar hann er búinn,. sýnir hann konu sinni.)

Auðun.

Viltu ekki lesa, heillin mín!

Sigríður

(tekur við og les með sér.)

Nei nei! hættu nú, þú seigir hann hafi stolið sauðnum fortakslaust, hann sé sauðaþjófur, og skuli gjalda fjerfaldt aptur, ef þú eigi gjörir hann ærulausan.

Auðun.

Já, sitji hann með það, jeg ætla að lakka það, og senda það strax.

Margrét.

Jeg skal uppá timann hlaupa med þad; jeg er ekki báugin.

Sigrídur.

Nei! fyrir hamingju skuld, þad er allt of gróft, þú kannt ad komast í mestu vándrædi fyrir þetta.

Audun.

Jeg veit, hvad løg seigja, og þar fyrir var jeg konstitúeradur logréttumadur, hef setid í logréttu, og dæmt yfir morgum-sýslumanns dómi. Bréfid skal Jón hafa, hann er sannur ad sok, eins og Hrólfur seigir; taktu vid, Mánga! og flýttu þér nú.

(fær henni bréfid.)

Margrét.

Ojá! húsbóndi gódur! skjaldan er jeg von ad vera svo leingi ad þvi, sem eg á ad gjora.

(hleypur á burt.)

## Fimmta atridi.

(Hrólfur, og hinar somu persónur og ádur, nema Margrét.)

Hrólfur.

(kémur inn aptur.)

Sæl verid þid oll! gott er vedrid, túnglskin og spakvidri.

Audun.

Hvad er ad frétta ad nordan?

Hrólfur.

Hardt er þar, enn hardir menn taka á móti, sem ekki géfa sig ad smákriti.

Audun.

Hvornig lidur sýslumanni ydar?

Hrólfur.

Ekki held jeg hann lifi á brádinni, eins og hrafninn; jeg hef ekki séd hann nýlega, og óska aldrei ad sjá hann.

Audun.

Takid þér þá eingann sýslupassa?

Hrólfur.

Hér eru mínir sýslupassar, þeir gánga yfir allt land, og gylda yfir alla veroldina (hann bendir í iljarnar, og slær á skósólana.)

Sigrídur.

Hefur madurinn ekkért med sér ad selja ad nordan?

Hrólfur.

Jeg trúi jeg hafi fáeina klúta í vasanum, og hitt og þetta. (Rífur upp á bordíd, og sýnir, enn allir fara ad skoda).

Una.

Þarna er fallegur klútur, módir min!

Sigrídur.

Þad er karlmanns klútur.

Una.

Hann er fallegur samt, er hann dýr?

Hrólfur.

Ríkisdal og sléttan, og er hid betsta kaup.

Audun.

O! já, já! þad skaltu fá.

Una.

Vill ekki madurinn selja hálsnálarnar sínar?

Hrólfur.

Þær verda nú dýrar, því jeg hef smídad þær sjálfur.

Audun.

Þú skyldir heldur, Una litla! spyrja hann, hvort hann vildi ekki fara til okkar eitt ár eda tvo; gjætud þid þá komid ykkur saman um smidid; og yrdi hann þá máské ekki dýr vid þig ad leiks lokum; eda hvad seigid þér, Hrólfur minn!

Hrólfur.

Vísast er þad, enn fá skal hún nálarnar med betsta verdi, þær skulu ekki kosta meir enn átta mark.

Una.

Nógu dýrt held jeg þad sé, fyrir litlar og brúkadar nálar, og sé jeg þad á øllu, ad varla munum vid koma okkur saman um seinni kaupin.

Audun.

Jeg skal borga þetta fyrir þig, kindin min! (tekur upp einn báŋkósedil og nokkra skildinga.)

Hrólfur.

(sem telur eptir.)

Hér vantar uppá 18 sk. spesie.

Audun.

Máské! vid skulum sækja þá, heillin min! lýstu okkur, Una litla! med ødru ljósinu! (þau gánga øll út.)

## Sjøtta atridi.

Hrólfur.

(einsamall.)

Hér ber vel til veidi; fólkid er heimskara enn þorskar; mitt færi skal jeg úti hafa, og þegar jeg hefi þennan heimsku hákall undir bordid, þá skal jeg skélla hann rétt almennilega. Jeg ætla ad bera mig ad narra út úr honum reidhestinn sinn, þad er eingin synd, því feitur uxi hefur fulla sok; enn hvorniŋ jeg

á ad því ad fara, veit jeg ekki svo gløggt, enn rád munn koma med tíma. Audun skal gleyma ad eta og drekka, enn muna til Hrólfs litla ad nordan.

## Sjøunda atridi.

Audun, Sigrídur og Una
(koma inn aptur.)

Audun.

Hérna eru 18 sk.; hafa ekki betri klútar verid ad fá hjá kaupmanninum fyrir nordan í sumar?

Hrólfur.

O ekki! enn nú hafa menn feingid kaupin á Eyrarbakka med því þar nýkomna skipi.

Sigrídur.

Er þar nýkomid skip núna, um hávetrartímann?

Audun.

Pad er nokkud sérlegt! hvada vørur eru þar? og med hvada pris eru þær seldar?

Hrólfur.

Til dæmis: brennivínspotturinn er á 12 sk., tóbakspundid 15 sk., korntunnan 2 ríksd., 60 fiska klædi fyrir 35 fiska; floiels bordar og ekta gullgalónur med bestsa verdi; timbur ósegjanlega gott, járnid kvad vera mestan part stál, og kostar hálfan ríkisdal lisipundid, og allt eptir þessu.

Una.

Er mjødurinn dýr?

Hrólfur.

Mjødurinn á 9 sk. potturinn, sírópid á 10 sk., sikurpundid á 23 sk., og svo frammveigis.

Audun.

Pángad væri verdt ad vera kominn; nú vantar mig

illa hesta mina, þvi jeg er búinn ad koma öllum fyrir, nema reidhestinum, og timi jeg ekki ad brúka hann undir áburd.

Hrólfur.

Þad er og mesta synd; ad leigja hesta er kostnadarsamt, og til kaups fást þeir ekki. Jeg hefi púlshest, sem jeg rid, enn hann læt jeg ekki fyrir nokkurn mun; þad er sá traustasti gripur, sem til er, hann brestur aldrei á útigángi, enn einginn veit hvada kraptar í honum eru. Í sumar lagdi jeg á hann tvær korntunnur, og var einsamall.

Una.

Gátud þér vel komid heim til klakks.

Hrólfur.

Óhætt var þvi, ef jeg hefdi haft nokkurn til ad standa undir; enn klárinn lá, læddist jeg svo ad honum, og smeygdi silunum upp á; sídan tók jeg heilt brennivins ánkér fyrir framan mig, og settist svo ofan á milli; en þá hnikkti hann sér upp svo hardt, ad flest móttok slitnudu, hljóp á stad, setti undir sig höfudid, frisadi, stedjadi yfir holt og klúngur, vætukéldur og allt hvad fyrir vard; stödvadist hann ei fyrr, enn hann stód á hladinu heima; enn þad var hálf önnur þingmannaleid, og vár jeg þá ordinn svo vingladur i höfdinu, ad jeg stakst af baki.

Una.

(lágt.)

Liklega hefir brennivinsánkérid verid nokkur skuld þar i.

Audunn.

Fæ jeg hann ekki hjá ydur?

Hrólfur.

Einn fríhöndlarinn fyrir nordan baud mér fyrir hann 35 spesíur gamlar.

Audun.

Ojá! rétt er þad; þad hofum vér heyrt, og þetta er sannleikur.

Hrólfur.

Þó jeg nú þægi ydur, þá stend jeg hestlaus eptir.

Audun.

Þér skulud fá minn reidhest í stadinn; hann er úngur, vakur, og hefir verid géfid í þrjá vetur; (til konu sinnar) géfdu honum Hrólfi hressíng, heillin min!

Sigrídur.

(færir honum í staupinu.)

Viltu ekki sjá hestinn fyrst, Audun minn!

Audun.

Jeg leit snogglega til hans ádan, jeg trúi Hrólfi í ollu; er hann gamall?

Hrólfur.

Níu vetra, enn holdskarpur er hann undan ferdinni, enn þó bar hann óhætt baggana sína.

Audun.

Vid skulum ad svo mæltu og svikalaust hafa hestakaup ad fullu, og skal jeg þessa minnast einhvorntíma.

Hrólfur.

Þad verdur þá svo ad vera, af því ydur liggur svo mikid á, og þér erud alkénndur ærumadur; munud þér og vísast verda til ad gjora bón mína einhvorn tíma, ef jeg rædst til ad fara híngad ad ári.

Enn af því það er nú svo gott veður, ætla jeg að komast í kvøld yfir hálsinn.

Auðun.

Jeg skal þá hjálpa yður að leggja á, og svo kveðja með kossi og handabandi í seinasta sinni hann Rauð minn. (Þeir gánga báðir út.)

## Attunda atriði.

Sigríður, og Una.

Sigríður.

Mikið er það hvað hann Auðun minn er fljótur til að trúa øllu; opt hefir hann ratað þar með í baga og vandræði, sem mátti þó kénna honum, að ekki er allt sem sýnist, og ekki er allt satt, sem skrafað er; jeg hefi svo opt, sem hárin eru á hofðinu á mér, morgum sinnum leitt honum það fyrir sjónir, enn það er að bera vatn á klettinn.

Una.

Falslaus maður trúir øllu; hans hjarta er sem gull, sem ekki tekur á móti nokkru ryði.

Sigríður.

Viss er jeg um það, að Hrólfur hefir narrað hann á hestakaupunum, því ótrúlega sagði hann af styrk hans og gjæðum.

Una.

Ykjur og málæði mun flagg lýginnar, enn handskavetlingarnir og skrokksnúningurinn er hoggorma æði: hef jeg heyrt einhvorntíma sagt; enn allt þótti mér þetta svipur hjá Hrólfi.

Sigríður.

Ekki hef jeg stórt anga á Hrólfi þessum, og heldur þótti mér hann uppvoðslu samur. Hávaðamenn

eru ad sonnu nordlendskir margir, enn þó gékk þessi frammúr, og dámadi mér það ekki.

Una.

Vel væri, ad ekkért illt hlytist af honum, enn mig slær eitthvad; enn má jeg ekki, módir min! eiga sjálf rád yfir klútnum og nálunum? ef jeg má seigja ydur, módir min! jeg ætla ad géfa honum Andrési það, því nú er afmælisdagurinn hans á morgun, hann hefir þá þrjá um tvitugt.

Sigrídur.

Veit jeg það, ad ykkur er i þokka saman, enn fadir þinn seigir hann sé fátækur.

Una.

Er þá fátæktin glæpur? er hann ekki af skikkanlegum kominn i bádar ættir? og hvor hefir reynst okkur betur i raun og réttum sanni, enn fadir hans, Gissur?

Sigrídur.

Satt er það, Gissur er betsti madur i øllum hlutum.

Una.

En skjaldan fellur eplid lángt frá eikinni.

## Niunda atridi.

Audun og Hrólfur.

(koma inn.)

Hrólfur.

Nú er ekkért eptir, nema ad fara á bak.

Audun.

Jú! ad drekka hestaskálina!

Hrólfur.

Gjorum vid það þá!

(Audun skeinkir á tvø staup, tekur annad, enn fær Hrólfi hitt, og seigir.)

Audun.

Hérna, elsku vin! og ákjósanlegasti teingda son!

Una.

Herrann vardveiti mig!

Hrólfur.

Jeg seigi gratsias, enn látum oss byrja.

Pá grannar vorir hittast hér,
hvor þá ødrum bjóda fer
:,: hestakaup og hrossa :,:
þessi þeirra ein er art,
ekki hrjóta á medan spart
:,: kjassmælin og kossar :,:

(nú kvedur hann Audun og Sigridi, enn þegar hann kyssir Unu, seigir hann.)

Farid þér alla tima vel, elskulega jómfrú! heilsid þér kjærlega frá mér þeim, sem þér ætlid ad géfa silfurnálarnar, ad hann hafi þær ekki i hardbráki, ef støkkt kynni ad vera i þeim; far vel allir saman! (geingur út.)

(fortjaldid fellur.)

---

# Annar þáttur.

## Fyrsta atridi.

Audun, Sigrídur, Una. Gissur og Andres.

(Gissur og Andres koma inn, vid þeim er vinsamlega tekid; allir heilsast.)

Sigríður.

Gjørið þið svo vel og setjið þið ykkur niður! (Auðun tekur stól handa Gissuri, enn Una handa Andresi.)

Auðun.

Hvaðan komið þið núna feðgar?

Gissur.

Jeg brá mér suður í kaupstað, að kaupa fáeinar nauðsynjar, svo sem mjöl, trjávið, járn og þesshátt-ar. Jeg gjöri annars sem minnst kaup, jeg gét, því þegar jeg yfirvèga þá dýru prísa, og hvornig þeir þar á móti hesla okkar betstu vörur, þá álykta jeg þann betst farinn, sem búið gétur að sínu; og þegar jeg sé, að jeg fæ ekki jafnvægi, einkum í mat, þá les jeg minn borðsálm á íslendsku, og borða mér fisk og kjöt í herrans nafni, og læt útlendskt vera útlendskt, og sama ræð jeg þér að gjöra, Auðun minn! þessi kornkaup, fyrir 6 riksd: tunnan, eru allra mesti út-dráttur í einu heimili; hafið ráð mín í þessu.

Auðun.

Ha, ha, ha! jeg fæ hana fyrir 2 riksd., ekki géf jeg meira, ha, ha!

Gissur.

Lángt frá.

Auðun.

Og brennivínspottinn fyrir 12 sk.

Gissur.

Svei því!

Auðun.

Og tóbakspundið fyrir 15 sk.

Gissur.

Svei, svei

Audun.

Eitt lisipund af járni fyrir hálfan riksdal.

Gissur.

Ekki vel!

Audun.

Og mjadarpottinn fyrir 9 sk.

Gissur.

Ekki glatt!

Audun.

Og siróp fyrir 10 sk.

Gissur.

Hættu nú!

Audun.

Og fløielsborda og gullgalónur, rétt fyrir ekki neitt!

Gissur.

Peigi þú nú fyrst.

Audun.

Og vidinn hinn betsta, med gjafverdi.

Gissur.

Ertu ordinn galinn? og hvar er allt þetta?

Audun.

Fleiri vita nokkud', enn Gissur i Grindavik; enn biddu nú vid, jeg skal seigja þér þad er, nýkomid skip á Eyrarbakka, sem hefur allt þetta.

Gissur.

Nú held jeg þú vadir (med tukt ad seigja) rassinn upp i ána; skip, núna um hávetrar timann, komid undir fól! lendt á Eyrarbakka, nei, nei!

Audun.

Já, minn bródir! Hrólfur, nýkominn ad nordan,

Ásgrímsson, sagdi okkur þad, hann er skynsamur madur og rádvandur.

Gissur.

Nýkominn ad nordan! seigir skip komid fyrir sunnan á Eyrarbakka, med óheyrda prísa! Hrólfur Ásgrímsson, skynsamur og rádvandur madur! ef jeg rétt man, útflæmdur fyrir skálkapor úr Nordurlandi; allt kemur fyrir nokkurnveiginn eins, því allt mun eins satt og eins lýgi.

Audun.

Hann er sá greidvíknasti madur; hann lét mig fyrir hann Raud minn fá þriggja mjoltunna hest, níu vetra gamlan.

Gissur.

Væntanlega þriggja mjoltunna hvorju meigin, og er þad þá sex mjoltunna hestur.

Audun.

Jeg fékk hjá honum fyrir nær því ekkert klútinn hann arna og silfurnálar þessar: klútinn fyrir 1 ríksdal sléttan, og nálarnar ekki nema fyrir átta mark (sýnir honum).

Gissur

(skodar.)

Já, já! fimm marks klútur, metallsnálar, tiskildings virdi í þad mesta; enn ollu vel! láttu mig sjá gjædinginn Hrólfsnaut!!

Audun.

Já, hann bætir um! og þó jeg hafi borgad hitt vel, svo sé jeg vegna hans ekki eptir því; kom þú þá út med mér. (Þeir gánga bádir út).

## Annad atridi.

### Sigrídur, Una og Andres.

### Sigrídur.

Lagdist þad ekki á mig, og optar, enn nú, hefur Gissur minn, komid vitinu fyrir okkur.

### Una.

Hann er madur rádsettur og nærgjætinn, enn slær sér ekki vitt út, og mikid vel bar nú til funda. Er ekki afmælisdagurinn þinn á morgun, Andres minn?

### Andres.

Nú hef eg þrjá um tvitugt, og ætlar fadir minn ad vori ad byggja mér dálitid af jordinni.

### Una.

Því rædur hann þér ekki heldur ad taka einhvorja jord einsamall? því einginn lofar einbilid sem verdt er, seigja menn.

### Andres.

Hann seigist, vilja sjá framkvæmd mina og rádstofun; vill sjá til med mér, og leidrétta þad, sem honum ei sýnast um; betst sé ad byrja med litlu, og, ef hagnast, færa sig heldur einum reiti fram enn aptur; verdur madur þá sídur ad athlátri manna; hann seigist hafa þekkt marga, sem í fyrstunni hafi rétt ætlad ad gleypa himin og jord, enn fyrsti bitinn hafi stadid i þeim og ordid þeirra bani.

### Sigrídur.

I flestu er Gissur ólikur odrum monnum, og ei sist i bústjórninni, hefur og svo ætid verid veitandi, enn ei þyggjandi, hvornig sem oltid hefur.

## Þridja atridi.

Gissur og Audun
(koma inn aptur.)

Gissur.

Klárinn er tannlaus, kominn yfir tvitugt, skinhoradur og meiddur; háin er tveggja ríksdala virdi, og þá er búid; i hvada sýslu, fyrir nordan er þessi gödi Hrólfur?

Audun.

Hann hefur aungvan passa, nema fæturnar á sér, sem hann sagdi.

Gissur.

Hann er þá landhlaupari.

Audun.

Enn hann er vinnumadur séra Önundar á Breidabólstad, og til hans skal jeg halda mér um öll þessi kaup.

Gissur.

Lýgi yfir lýgi, svik yfir svik! þar er einginn séra Önundur til.

Audun
(tekur til ad skjálfa.)

Æ! ó, ó! hamingjan hjálpi mér! svo hefur þá þessi svikari svikid mig fyrir meir enn tin ríksdali.

Gissur.

Vel þad, fram undir tuttugu!

Audun.

Jeg trúdi honum, þeim svikarà; nú trúi jeg þér; jeg skyldi trúa allri veroldinni, ef hún ei sviki mig; nú trúi jeg aungvum lifandi manni meir, og aungv=

um skal jeg trúa, allt eru prakkarar; enn hvor pokurinn vísar þeim á mig? það veit jeg ekki. Narri þeir alla adra, já, á himni og jørdu og í undirdjúpunum; enn láti mig vera. O! sviki þeir seinast sálina út úr kroppnum á sér! tuttugu ríksdalir misstir hreint út! Raudur minn farinn, sem jeg trúdi á, æ! jeg skal aldrei trúa meir, kasta allri trú, ó! ráddu mér nú rád, Gissur minn! ef nokkurt rád er til, ó, ó!

Gissur.

Vertu ekki svo trúgjarn.

Audun

(hrín.)

Aldrei skal jeg trúa, trúin gjörir mig hreint ólukkulegan; svei mér, ef jeg skál trúa meir; mínir tuttugu ríksdalir, er það ekki grátlegt? í einn augnabliki allt til skollans, og reidhesturinn med.

Gissur.

Vertu hægur, Audun!

Audun.

Jeg skal aldrei vera hægur, trúa, ætladi jeg ad seigja, trúa, trúa!

## Fjórda atridi.

(Þeir fyrri og Margrét.)

Margrét

(kemur inn másandi og blásandi.)

Sælir, húsbóndi gódur! ekki var jeg leingi, jeg hljóp svo jeg (másar)ætladi ad velta út af, og missa øndina.

Audun.

Minna er það, enn 20 ríksdalir, sem jeg hef

misst; enn hvad sagdi bannsettur saudaþjófurinn, hann Jón? kemur hann? borgar hann? eda æruna! geldsaudar æru fyrir 20 riksdali vildi jeg seigja. Nei! geldsaud og 20 riksdali allt i einu; nú, kemur þjófurinn? spyr jeg, ertu klumsa? ó!

Margrét.

Já! hann kemur med . . .

Audun.

Med fimm gamla saudi? sýnist honum þad, fantinum þessum?

Margrét.

Med tvo menn.

Audun.

Med tvo menn ad reka fimm kindur? jeg var vitlaus, ad jeg setti ekki meir upp á vid þrælinn, (grundar litid) hvorsu mikid er fjórum sinnum 15 mark, Gissur minn?

Gissur.

Þad eru 60 mork, 10 riksdalir.

Audun.

Æ, æ! ekki meira? hann skal þá láta úti átta saudi; þá hef jeg mina 20 riksdali, enn þad kemur vel á vondan!

Gissur.

A hvorn? hvad er þetta? hvor er saudaþjófur?

Audun.

Þad er hann Jón Jónsson á Heidarkoti.

Gissur

(undrandi.)

Hann Jón Jónsson á Heidarkoti! nábúi minn! gamall madur! sem hefur til þessa haft þad betsta ord á sér. Fyrir sjo árum kom jeg honum þángad, sem

þeim rádvandasta manni, því mér þótti mest á því ridá, ad frómustu menn byggju til afdala, og í grend vid afrétti manna. Fékk jeg fyrri ábúanda þadan, því ad kurr var í fólki um hann, þó ekkert utan skikkanlegt yrdi um hann sannad, og ekkert heldur annad sídan, svo líklegast er, ad þad hafi verid tómt álas manna, sem öfundudu hann af því hann blómgadist vel; samt rédi jeg honum í vinsemi ad seigja sig frá annara bygdarmanna grunsömum hnjód, og fara af jördinni, sem hann og strax gjördi med gódu. Jeg var þá og úngur hreppstjóri, og lét gánga vel undan mér. Ekki, ekki kannast jeg vid þad, ad Jón sé þjófur, og vel vandar hann sitt vinnufólk, hann er granni minn!

Audun.

Heyrdu! sá, sem hyllir med þjófunum, hann er verri enn þjófurinn, skilur þú mig?

Sigrídur.

Gádu ad, hvad þú seigir, heillin mín!

Gissur

(litid úfinn í skapi.)

Ekki kann hann ad meina mig.

Audun.

Þú sagdir jeg skyldi aungvum trúa, hana nú! þad er aptur rángt.

Gissur.

Enn af hvorju trúir þú, ad Jón sé þjófur, Audun minn?

Audun.

Þad er nú þad einasta, sem jeg trúi; þú veitst mig vantadi hvítan sand í réttunum í haust; í gjær slátr=

adi Jón sauð með sama aldri, sama lit, og sama marki, og fór leynilega með höfuðið. Hvað seigir þú nú, minn góði Gissur!

Gissur.

Sé þetta allt víst, þá er von þú grenslist eptir; enn lík eru mörk ykkar Jóns; enn hefur þú óræk vitni?

Auðunn.

Já, ójá! meir enn einum þjóf nægir.

## Fimmta atriði.

Allir þeir fyrri og Jón.

(Nú er barið snögglega, og geingið inn síðan kvedjulaust og heldur snúðuglega; og er þar Jón og tveir aðrir bændur.)

Jón.

Hér er jeg kominn eptir bréfi þínu, monsjor Auðunn lögréttumaður!

Auðunn

(ofur reiður.)

Borga þú mér strax, þjófurinn þinn! átta sauði gamla; mér nægir nú ekki leingur með fjóra.

Jón

(alvarlegur.)

Jeg bið yður alla að minnast, menn og konur! (verður Gissurar var) sælir verið þér, Gissur góður! jeg þakka yður fyrir seinast.

Gissur

(þurlegur.)

Sæll vertu, Jón!

Audun.

Hvar er sauđurinn, sem jeg skal hafa?

Jón.

Jeg er ekki þinn þjófur, Audun! og einkis hef jeg þad verid, og einginn hefur mig þjóf lýst fyrr enn þú, og býd jeg þér nú fyrst sætt, ef þú vilt til fátækra gefa 10 ríksdali fyrir þjófsnafnid, enn vottanlega apturkalla ærulevsis ord þín, og vitna jeg þetta undir þig, Gissur! og adra góda menn!

Audun.

Jeg hef vitni uppá þinn þjófnad.

Jón.

Jeg hef vitni uppá ad þetta er lýgi.

Audun.

Sýndu strax gjæruna og hofudid, ef jeg skal ekki strax gjora þig ærulausan, þjófurinn þinn!

Jón.

Jeg bid ad minnast; hvortveggja hef jeg nær og í sinni, enn nú ei; muntu fyrst verda ad bevísa illmæli þitt, og þar þú ei vilt sættum taka, þá stefni jeg þér hér munnlegri stefnu, Audun bóndi Illugason! ad mæta ad 14 dogum hér frá lidnum á venjulegum þingstad og þinu varnarþingi, Ottarstodum, til ad hlýda framsogu sakar minnar, ákjærur allar þér á móti, ad þú mig illmælum lostid hefur, og mig þjóf nefndan. Tel jeg þig þar um sekan, ærulausan og minni mann, hédan í frá, ad réttum lagadómi, sem þá ákvardar fullt sektafé mér til handa, samt frekan málskostnad, ad réttum framburdi máls þessa. Mættu árdeigis, og bid þú svo leingi, sem réttur til

seigir. Lýsi jeg stefnuvætti þessu til þín, Jón bóndi Grímsson! og til þín, Bjorn bóndi Hallsson!

Audun.

Þessa stefnu ónýti jeg strax, því allur dagur skal til stefnu, enn sól skal ráda á sumar, enn dagur á vetrum. Skilur þú það, þjófurinn þinn? log kann jeg vid þig.

Gissur.

Hér er i vandrædi komid; seigi hvor fyrir sig fram sína sok þóttalaust, og láti mig heyra.

Jón.

Það vil jeg gjora fyrir þín ord; hér er bréf Auduns med eigin hendi; lesid þér, Gissur gódur! hátt. (Fær honum bréfid.)

Gissur

(tekur og les.)

„Fyrverandi heidursmann!

Þar þú sannur ert ordinn um, ad hafa stolid saud mínum hvíta, fimm vetra gomlum, drepid hann og etid, skaltu strax i stad fyrir þjófnad borga mér fimm aptur, því login seigja, ad einn, sem stelur, skuli gjalda ferfaldt aptur; enn gjorir þú ei það, læt jeg setja þig i járn, og færa þig sýslumanni, gjori þú þitt upptækt, enn þig sjálfan ærulausan. Hér til er jeg reidubúinn.

Túngu þann . . . . 1798.

Audun Illugason."

Lýstur ertu hér nokkrum sinnum þjófur, bædi hardt og háduglega. Seig þú þá fram, Audun minn! sok þína.

Audun.

Jón er saudaþjófur.

Gissur.

Þad hofum vid nú heyrt, enn hvar eru rok fyrir?

Audun.

Slátradir þú ekki saud í gjær, Jón!

Jón.

Jú!

Audun.

Var hann ekki hvítur, stór, og 23 merkur í honum?

Jú.

Audun.

Var hann ekki hnifló̈ttur?

Jón.

Ojú!

Audun.

Nú er þjófurinn merktur, seigi jeg, Gissur minn! hafdi hann ekki blett á bakinu?

Jón.

Ojú! borid hafdi jeg tjoru í lagdinn.

Audun.

Var ei hvatt bædi, og biti aptan vinstra?

Jón.

Jú, jú! enn einginn biti hvorki hægra né vinstra.

Audun.

Þad lýgur þú; var hann ei fimm vetra?

Jón.

Ekki! hann var þriggja vetra.

Audun.

Þetta lýgur þú aptur, og þad sver jeg, ad þetta er bannsett lýgi.

Gissur.

Hægt, hægt! viltu ei, Jón minn! sýna okkur gjærnna og hofudid?

Jón.

Jú, jú! gjarnan fyrir ydar ord, Gissur!

Gissur.

Komum vid þá allir. Sjón geingur fyrir sok hvorri.
(Þeir gánga allir út, nema Andres.)

## Sjötta atridi.

Sigridur, Una, Andres og Margrét.

Sigrídur.

Laungum grunadi mig, ad af þessu bréfi mundi íllt hljótast, jeg rédi og svo frá því, sem jeg gat, enn þess var ekki kostur.

Una.

Ætli Hrólfur sé ekki sok i þessu?

Margrét.

Já, nei, nei! mér leitst vel á Hrólf, og hefur hann víst ei farid ad ljúga því.

Andres.

Sinum augum litur hvor á silfrid, enn sé Hrólfur ad nordan, sogumadurinn, þá er hann alræmdur prakkari, og rekinn þadan fyrir ókuytti

Margrét.

Þad er óvíst, hvort þeir eru betri, sem lasta hann; sletta og sumir illu um alla, sem grædi plástrum yfir sínar eigin meingjordir og hrekki,

Andres.

Sérhvad elskar sér líkt, Margrét min! og sleppum

því; enn uppkoma svik um síðir, þó í fyrstunni kyrt fari.

Sigríður.

Nú ætlum við hérna mæðgurnar að biðja þig, Andres minn! að eiga góðann þátt í þessum málefnum.

Una.

Jeg þarf ekki að biðja, jeg veit að þú gjörir það þú getur, fyrir mína skuld, Andres minn!

## Sjøunda atriði.

Gissur, Auðunn og Jón koma inn.

(Gissur setur sig niður, og blæs þúngan.)

Jón.

Nú veit jeg víst, að þér berið mig undan illmæli þessu, Gissur góður!

Gissur.

Allt reynist satt, sem þú seigir, Jón minn! eins og mín tilgáta var um sakleysi þitt; enn þó má jeg seigja þér, að jeg þagnaði nokkuð við, og hugsaði: einu sinni verður allt fyrst.

Auðunn.

Líklegast þyki mér þó enn, að þú sért þjófur, Jón! Hrólfur geingur fyrir tvø vitni í søkinni, því hann er geistlegur vinnumaður, það er að seigja, að hans húsbóndi séra Ønundur er geistlegur, en geistlegheit forplantast í ættir og familíur, það er á íslendsku húsfólk, eins og gøfugheit, aðall, góð hljóð, heiður, lán og gjørfi, líkamskraptar o. s. frv. Verið óhræddir! løgréttumaður er jeg, og løg veit jeg.

Gissur.

Þetta kif gagnar ekkért, enn seig þú nú fyrir samvitsku þinni, Audun! og svo sem þú þyrdir uppá ad sverja med sáluhjálpar eidi: heldur þú ad þad sé þinn saudur, sem þú hefur séd af gjærunna og hofudid?

Audun
(þeinkir sig um.)

Ekki er þad minn saudur; enn mig vantar saudinn, og Hrólfur . . .

Gissur.

Hrólfur er, sem þú veitst, ordinn uppvís um þá órimilegustu lýgi. Nýlega hefur þú grátid yfir honum fyrir svik og falskleika vid sjálfan þig, þar hann á drykklángri stundu hefur narrad þig um 20 riksdali. Illmæli hans um sýslumann sinn ad sakleysu, sagdir þú mér ádan úti; dæmdur er hann ádur fyrir óknytti, og rekinn úr Nordurlandi; sýslu- og prests- passalaus slakkar hann um allt land; er hann réttur tukthússpiltur ad minu áliti, og þetta eru nú oll þin vitni, Audun minn! ekki munu finnast lakari.

Audun.

Já þad er satt, enn jeg trúdi Hrólfi þá, enn jeg skal aldrei trúa honum hédan af eda odrum, og held jeg Jón sé nú saklaus.

Jón.

Saklaus er jeg, Gissur gódur! þad veit hamingjan; enn viljir þú, Audun! vid mig sættast, þá géfur. þú mér 10 riksdali til fátækra; annars fer jeg fram stefnu minni; ekki vil jeg á þér ábatast, enn

heldur kénna þér eptirleidis ekki ad trúa ollu sladri, edur ljósta adra menn ærulevsis ordum.

Audun.

Aldrei einn hálfann skilding! 20 riksdali hefur Hrólfur svikid af mér, og þú vilt hafa 10 riksdali fyrir eitt ord sem jeg taladi i grandleysi; þetta eru 30 riksdalir á einu kvoldi. A jeg þá ad verda ólukkulegur, med konu og forstodulausri dóttur; enn stefnuna hef jeg ónýtt.

Jón.

Borgir þú mér ekki, gjori jeg þig ærulausan; því skrifad stendur: æru fyrir æru og tonn fyrir tonn.

(Andres geingur ad fødur sinum, hvislar ad honum jafnt og þétt, og er alltaf hjá honum, enn Sigridur og Una vísa sig stadlausar fyrir útfallinu.)

Gissur.

Viljid þid jeg gjori um málid med ykkur!

Jón.

Já feiginn.

Audun.

Já, já! enn dæmdu þá einusinni rétt, Gissur!

Gissur

(Þeigir lítid og hugsar sig um.)

Jón er saklaus af illmælinu og á ekki ad þola ærulevsis-ord fyrir ekkért; óbillega sáttargjord hefur Jón ei bodid, og 10 riksdalir eru ei ofmiklir ad kaupa fyrir æru sina; þá æru, sem einn hefur eitt sinn misst hjá sinum medborgurum, fær hann ei svo létt aptur. Satt er þad, ad kóngur géfur hana stundum, enn hún kémur mér fyrir eins og gylling. Audun er ekki heldur einsamall orsok til illmælisins.

Audun

(sem alltaf er titrandi af hrædslu, talar framm í)

Pad veit drottinn minn! þad var ord og ad sonnu.

Gissur.

Heldur er Hrólfur med; eiga þeir því bádir eptir verdskuldan ad svara þeim 10 ríksdolum.

Audun

(titrandi.)

Hrólfur ollu, ollu!

Gissur.

Nú veldur sá miklu sem upphafinu veldur, enn þad er Hrólfur.

Audun

(titrandi.)

Ojá, ojá!

Gissur.

Enn þó getur Audun ekki strafflaust afkomist.

Audun

(titrandi.)

Æ, æ, æ!

Gissur.

Heldur sokum þess, hann hlýddi raustu Hrólfs, og lýsti Jón þjöf saklausann, þá skal hann til sveitar-innar og í hendur Jóni gefa þá raudskjoldóttu kvígu, sem hann á, og nýlega feingid hefur.

Audun.

Ohó, æ, æ! ó! Herrann hjálpi mér! nei, nei! aldrei.

Gissur.

Og séu hér nú sáttir, sem aldrei hefdi í skorist, og búid er nú!

Audun.

Jeg appellera til yfirréttarins og depónera 9 mark í réttinn, og begéri útskrift af öktum.

Jón.

Jeg þakka ydur, Gissur minn! góda gjörd og náttúrlega; jeg sæki kviguna seinast í þessari viku, því appellid er vitlaust, þar ed Audun hefur voldgéfid sökina. Í kvöld strax, fer jeg til hans Eyriks á Aumalæk, og gled hann med því, ad hann hafi feingid sér kvigu til litillar bjargar. Verid þid sæl, öll saman! lifid þér alla tíma sælir, Gissur gódur! (geingur burt med tveimur sínum mönnum.)

## Attunda atridi.

**Audun, Gissur, Sigrídur, Una Andres og Margrét.**

(Andres, Sigrídur og Una þakka Gissuri sætt þessa med kossi; enn Audun geingur sem ær um gólfid, og rifur sig med bádum höndum í höfudid.)

Audun.

Erud þid vitlaus ad þakka fyrir mína skömm og skada? 20 ríksdalir svíkur frá mér, stolinn minn betsti saudur, og ofan í kaupid mist kviguna, betsta kýrefnid úr fjósinu.

Gissur.

Manstu ekki í hvorja sekt þú tókst kviguna þá, og af hvorjum?

Audun.

Þú vilt segja ad illur feingur illa forgeingur; nú man jeg allt og læt þad svo vera, því ekki var kvigan í fyrstunni mér svo dýrt keypt; enn hjálpadu mér nú, Gissur! ad ná minu aptur frá Hrólfi svikara!

Gissur.

Annad mál er það! þar hefur þú rétt að mæla, Audun! enn hvar ætladi Hrólfur að gista í nótt?

Sigrídur.

Hann reið að Hálsi.

Andres.

Þá er hægt, faðir minn! að ná honum, ef maður hefdi árángur á því; enn Hrólfur er viðsjálsgripur, og svo leingi æfir maður prettina, til þess þeir verða að handverki.

Gissur.

Ekki svíkur hann úr manni vit og rænu, þó maður sjái hann sem snöggvast, og skal jeg að vísu fara.

Margrét

(kastar orði framm í.)

Hrólfur er svo vitur, að hann ekki er ykkar meðfæri; sterkur er hann, að ekki þurfið þið að fara í hendurnar á honum; fær hann og fljótt höfðingja í fylgi með sér.

Andres.

Já bodulinn, máské!

Margrét.

Kaupin eru fullgjörð, og kunna ekki að rjúfast.

Gissur.

Ef eigi eru með svikum gjörð, enn þegi þú nú, Margrét mín! og vertu sem trúust húsbændum þínum, og hugsa þú ætíð eptir því, að ódygð slær sinn eiginn herra um hálsinn fyrr eður seinna, heyrðu það! Nú tek jeg hest Hrólfs, og ríð að Hálsi strax, og reyni hvornig okkur tilskipast. Opt missa skelmirar dugn=

ad, þegar til þeirra er tekid; enn far þú heim til mín, Andres! á medan, med það sem vid hofum medferdis, kom þú svo hingad aptur, og sé jeg þá ei hér, svo finndu mig strax ad Hálsi; stattu ekki vid, og mundu mig um það.

(Nú reisir Gissur sig til ferdar enn þá er barid.

## Níunda atridi.

Þeir somu, og Eyríkur.

(Eiríkur á Aumalæk kemur inn, fátæklega enn þó hreinlega klæddur. Hann heilsar ollum med handabandi; Audun gnýr hendurnar og rífur liüd í hár sér.)

Eyríkur.

Takid eigi illa upp, jeg gat ekki stillt mig um ad koma hingad strax, þegar Jón sagdi mér, ykkar góðgjordir í móti mér og minum.

Audun

(bistur.)

Hvada gódgjordir?

Eyríkur.

Kvíguna, sem þér af hofdingskap gáfud mér; jeg get það aldrei verduglega þakkad; mitt hjartans þel get jeg audsýnt, og það er það einasta, sem einn fátæklingur getur borgad med. Hún Olof min ól barn í gjær, og nú getur það feingid litinn dropa, og hin bornin þrjú, innan skams, því kýrin min fer senn ad bera. Eptir það hún Olof min var ordin léttari, var hún alltaf stúrandi og grét þess á milli, því það er optast fátækra hæli, enn nú er hún glod; bornin fóru ad leika sér, og jeg rédi mér ekki heima. Jón sagdi, ad valla hefdi Gissur minn verid búinn ad

nefna mitt auma ástand, fyrr enn monsjor Audun hefdi sagt, ad hann skyldi gefa mér kvígu, enn hún Sigridur min hefdi strax viljad láta leysa hana út og færa mér. Herrann launi ykkur ollum betst (hálf kjokrandi) med klokku hjarta skal jeg ætid minnast ydar hofdingsskapar, monsjor Audun! og ekki kona min fyrri á fætur fara, enn hún hleypur hingad og þakkar fyrir barnúngans lif, og ad ydar stóri hofdingsskapur frelsadi oss oll frá sveitinni og ad betla, já máské ad stela. Gud vardveiti mig! jeg þori nú ekki ad vera leingur i burtu, þvi mér heyrist bornin vera ad kalla, og konuna vanti eitthvad (kvedur alla med handabandi, sem fyrr, og audmjúkt, enn allir taka undir.)

## Tíunda atridi.

### Gissur, Audun, Andres og Margrét.

**Audun**

(kallar eptir honum þegar hann fer.)

Jeg skal láta flytja kvíguna til þin á morgun, ádur enn hún er mjólkud, Eyrikur minn!

**Gissur**

(stendur upp og kyssir Audun.)

Hafdu þokk! nú hefur þú bædi heidur og ánægju af ollu þessu, svo skammarlega sem áhorfdist fyrir þér, og mikid vænn er Jón á Heidarkoti, og þetta bragd skal jeg muna honum.

**Audun.**

Jeg ydrast nú aldrei eptir þad, Gissur minn! þad fór vel; enn nú skulum vid oll hjálpa ykkur á stad, þér til Hrólfs, enn þér, Andres minn! heim med faráungur ykkar, og svo kemur þú hingad aptur.

Andres.

Jeg er ordinn helmingi léttari á mér enn jeg var ádur; nú fýk jeg eins og fidrildi.

Pad er svo sætt ad gjøra gott,
gledja sig svo af annars kjæti;
fátækan eltir audgra spott,
aumingjan stoltra rembilæti.
Hjartad í brjósti hermir mér:
hraustum ad stydja veikan ber;
yndæli hvilikt jeg aldrei fann
eins og ad styrkja náúngann;
yndæli hvilikt jeg aldrei fann
eins og ad gledja fátækann.

(Í því þeir gánga út, og sumir eru útkomnir, grípur Margrét klútinn Hrólfs og nálarnar, hleypur á eptir þeim og hrópar.)

Margrét.

Húsbóndi gódur! húsbóndi gódur! betst er ad leggja klútinn og nálarnar þær arna út í skemmu; alltid er Mánga ydar eins trú og samheldin (fer eptir út.)

---

# Þridji þáttur.

---

## Fyrsta atridi.

### Audun, Sigrídur, Una og Margrét.

(Margrét kemur skyndilega inn med böggul nokkurn undir hendinni, tekur kistils lykla sína, leggur böggulskautann vandlega ofan á. Hún heyrir í því sama

húsbændurnar koma, skellir því aptur kistlinum, enn verdur svo naumt fyrir, ad hún gleymir lyklinum í skránni, og stendur hann ólæstur, enn hún setur sig ad verki sínu og seigir.

Jeg skyldi hafa hjálpad ykkur til í fjósinu, því fyrir laungu er jeg búin ad láta upp med honum Andresi, jeg gat ekki leingur stadid yfir hans slóri, heldur fór jeg strax til vinnu minnar, því húsbænd-anna gagn stunda jeg umfram allt. Nú undi jeg mér ekki af því þid vorud svo lángann tíma burtu, ætladi því ad fara ofan í gard til ykkar, enn þordi þad ekki fyrir myrkfælni, því hundarnir voru ad ólmast og gelta; þad voru ekki almennileg læti, jeg þori ad segja þar hefur eitthvad óhreint verid á ferd, annadhvort draugur eda apturgánga; sumir settu upp svángöl, sumir urrudu, sumir geltu, sumir hljódudu, sumir rifu upp jordina, sumir fluguft á, sumir . . .

Sigrídur.

Hættu þessu bulli!

Audun.

Eitthvad hefur þad mátt vera, og ekki er Mánga von ad skrokva, og trúi jeg víst þad hafi verid eitt-hvad óhreint, eins og hún seigir, ellegar fyrirburdur einhvor.

Sigrídur.

Óskandi væri ad ekkert illt hefdi iskorist med þeim Gissuri og Hrólfi; mér lídur ekki Hrólfur úr minni svo fljótt.

Audun.

Þad skyldi ekki vera ad þad væri fylgjan hans Andresar, því aldrei hef jeg séd hann eins kátan og

vingjarnlegan; hann var svo léttur í spori, þegar hann átti að fara á stað, hann hoppaði og saung, rétt eins og feigð kallaði að honum.

Una.

Aungva vonda fylgju held jeg hann hafi; enn hann sagðist mundi biðja yður bónar, þegar hann kjæmi aptur í kvöld, og gat hann um það við móðir mína, og máské litið við mig; enn móðir min gaf honum svo sem heldur vilyrði.

Auðunn

(svo sem spottskur.)

Enn hvað sagði jómfrú Una litla?

Una

(klappar honum á höndina.)

Jeg sagði, þér skylduð öllu ráða, faðir minn góður!

Auðun.

Ojá! barn mitt! og skal það nú allt vera undir því komið, hvornig hann (Gissur) útréttir mitt eyrindi við Hrólf, og talar þar minu máli.

Margrét.

Æ! jeg hafði nærri gleymt, að seigja ykkur, að mér heyrðist eins og hestatramp í kringum allan bæinn, og svo sem mest í kringum skémmuna, sem stendur hérna úti á hlaðinu í brekkunni; enn hundarnir ætluðu að ærast, þeir stóðu upp á apturfótunum, þeir ýlfruðu, þeir vældu, þeir skræktu, þeir geingu aptur á bak, þeir . . .

Sigríður.

Þeigi þú! jeg vil ei heyra slíkt, þeir hafa verið að gelta, af því hann Andres fór úr hlaðinu með svo marga hesta.

Audun.

Nei, nei! trúi jeg þessu sem Margrét seigir, hún er adgjætin og greind; eitthvad er þetta, og mun þad sídar uppkoma, enn einginn skal einn útgánga í kvøld, hvad sem ágeingur; varsemi skadar aldrei, mørg eru dæmin; manstu ekki eptir púkanum í salerninu í Kristindómssøgunni; farid þid ekki einsømul útaf dyrunum. (Enn heyrist hundagélt og svo sem dunur undan hestum eda mønnum, eins og einhvør komi.)

Sigrídur.

Einhvør rídur þar í hladid, viltu, Margrét! vita hvør þad er? annadhvørt Andres eda Gissur.

Margrét.

Nei! fyrr enn mig ad drepa, jeg þori þad ekki.

Audun.

Jeg er óhræddur, jeg skal fara, og þad út á hlad og í kríngum allan bæinn, enn fylgdu mér med ljósi, Una litla! út í bæjardyrnar (gánga bædi út).

Sigrídur.

Vertu ekki ad því armæa, heillin mín! þad er ei heldur draugur, enn jeg er.

## Annad atridi.

Margrét.

Ekki skulud þér seigja þad, módir gód! margt hef jeg séd, sem jeg nú ei nefni.

Sigridur.

Þeigi þú einhvørntíma, Margrét! mér er opt illa vid þinn þvætting, jeg veit ei hvørju þad gegnir, enn þad líst mér sem þú ætíd hvetjir heldur upp til óróa, enn semjir til fridsemi; jeg vildi þú værir í

i burtu, því þú hvetur upp til alls ills; opt hef jeg bedid þig ad láta þad vera, enn . . .

(Heyrast hljóð Audunnar heldur ljét, sem nálgast meir og meir þar til hann kémur inn, og lætur sem mest ædilega.

## Þridja atridi.

### Audun, Sigrídur, Una og Margrét.

Þjófnadur, innbrot, rán, óbótamál, heingingarsök, eilift túkthús, brimarhólmur, járn og steglur.

Sigrídur

(hrædd.)

Hvad er á ferdum?

Audun.

Brotin upp skemmann min, stolid! stolid! allt stolid! brotid upp! kistur, skrinur, skápar, meir enn fyrir 20 riksdali.

Sigrídur.

Hverju er þá stolid?

Audun.

Ollu, ollu! nýa klútnum og silfurnálunum! og meiru og meiru, æ, æ!

Sigrídur.

Hver hefur stolid?

Audun.

Allir, allir! (bendir út i hópinn, sem vid er) þú, þú, þú! hefur stolid?

Sigrídur.

Vertu hægur, heillin min! er ei meiru stolid enn klútnum og nálunum?

Audun.

Ekki sá jeg annad, ójú! allt er stolid og brotid, og dyrnar upp á gátt, ó, ó!

Sigríður.

Sé ei meira stolið enn þetta tvent, þá látum okkur hægt, Auðun minn!

Auðun.

Hvor sem það hefur gjört, þá skal jeg láta færa mig úr skyrtunni, að hann verði heingður.

Margrét.

Hér hefur einginn lifandi maður verið, svo jeg viti, nema hann Andres.

Una.

Saklaus er hann.

Auðun.

Visast er það, enn hans draugagángur allt kvoldið nei! þar kunna þó aðrir að vera, því allir vilja nú eyðileggja mig rétt í einu.

Margrét.

Leingi slóraði Andres hér.

Sigríður.

Það er það sama; hann er saklaus.

Auðun.

Trú þú aungvu, sagði Gissur, það skal og vera, svo sem jeg lifi. (nú er barið á dyr.)
(Una og Margrét gánga og ljúka upp; enn á meðan seigir)

Sigríður.

Vertu nú stiltur, Auðun minn! á meðan, svo ekki beri neitt á neinu.

Auðun.

Jeg skal gjöra það, jeg set mig hérna (Setur sig á stól, með hønd undir kinn.)

## Fjórda atridi.

### Audun, Sigrídur, Andres, Una og Margrét.

(Una og Margrét koma inn med Andres, hann heilsar, enn Audun þeigir.)

**Sigrídur.**

Fanstu aungvan á veigi þinum, Andres?

**Andres.**

Nei! (svo friskur og kátur.)

**Sigrídur.**

Einhvor hefur brotist inn i skémmuna okkar Auduns mins! og stolid klút og nálum þadan, sem keypt var af Hrólfi.

**Andres.**

Ekki kann hann ad hafa gjort þad, þvi hann var á Hálsi.

(Margrét geingur til Auduns, og hvislar ad honum eitthvad, og bendir á vasa Andresar, upp úr hvorjum ad hángir klútur.)

**Audun**

(starir til Andresar nokkud, stekkur upp og gripur i brjóst honum seigandi:)

Vinur! hvad er þetta? (dregur upp klútinn, sem er rétt eins og Hrólfs klútur) hvar hefur þú stolid honum?

**Andres**

(hálfskelkadur.)

Jeg keypti hann ádur enn jeg fór, hérna hjá honum, Jóni litla i hjáleigunni, fyrir fimm mark og tvo skildinga, þvi hann hafdi ei gefid nema fimm mark fyrir hann sjálfur.

**Audun.**

Veit nokkur til þess hann eigi svoddan klút?

**Margrét.**

Jeg þori ad seigja: ad hann hefir aldrei átt.

Audun.

Vel, við skulum sjá eptir nálunum, (rífur óþyrmilega frá hálsinum og finnur þær) ó, ó! hér er sá rétti Júdas; hér er minn þjófur; í bolta og járn með þig. (Reipi, Margrét!

Margrét.

Já strax, húsbóndi góður! (fer.)

Audun

(sem alltaf hefur Andres fastan.)

Þú skalt heingjast, þó 100 Gissurar væru þinir feður (til Sigríðar). Er hann ei þjófur?

Sigríður

(hlessa.)

Jeg skil nú ekkert.

Una.

Hann er aldúngis saklaus.

Audun.

Já, saklaus skal hann verða af þér héðan í frá og að eilífu, amen!

Margrét

(kemur inn með reipabagga.)

Hérna held jeg sé nóg á hann til morguns.

Audun.

Ólarreipi um hálsinn, kaðalreipi um hendurnar, hárreipi um báðar fæturnar; þrjú reipi! taktu þau, Mánga! og það þau nýustu. (Margrét fer til með mestu handfimi.)

Una

(geingur til móður sinnar)

Æ! móðir min góð!

Sigrídur.

Ekki skaltu, heillin mín! leggja á hann bönd fyrst, fyrri enn Gissur kemur, enn látum hann vera hérna inni í badstofuhúsinu á medan; hann er þar eins vís og þó hann væri vafinn í vadmálum.

Margrét.

Enn út um gluggann!

Sigrídur.

Haltu á þér munninum, dubban þín!

Audun.

Eptir lögunum skal einn þjófur fjötrast, og kostirnir bindast á hans bak, og svo skal vera.

Sigrídur.

Láttu nú einusinni eptir mér, Audun minn! (hún og Una gánga til hans og blídka hann).

Audun.

Farid þid þá med hann inn í hús; enn ef þid látid hann sleppa, já, já! . . .

Una.

Jeg ætla ad setja ljós hjá honum.

Andres.

Jeg er hreinn og saklaus, því hvortveggja hef jeg keypt þar sem jeg sagdi, ádur enn jeg fór í kaupstadinn, (mædgurnar leida hann med sér burt).

## Fimmta atridi.

### Margrét og Audun.

Margrét.

Nú er audséd hesta trampid, sem úti var, og hunda-

geltid í kvöld; hefdi jeg ei verid svo hrædd, skyldi hann ei fyrr hafa brotist inn í skemmuna, enn hann var búinn ad hafa mig undir, og troda ofan á lífid á mér; trú er eg ydur og skal vera.

Audun.

Jeg veit þad, Mánga litla! þú hefur ætíd verid mér trú og einlæg, jeg skal einhvorntíma sjá þad vid þig, veslingur!

## Sjötta atridi.

### Sigrídur, Audun og Margrét

(mædgurnar koma inn.)

Sigrídur.

Hlýddu nú einusinni rádum mínum, og sendu ofan í hjáleiguna eptir honum Jóni, og spurdu hann ad, ádur enn Gissur kémur, svo allt sé vafalaust og á reidum höndum.

Audun.

Ojú, nógu vel! því fleiri bevís þess vissari þjófur; fleinging, heinging, brennimark, eda hvad þad kann ad vera; fardu strax, Mánga litla! biddu hann Jón ad finna mig.

Margrét.

Ojá, strax! skjaldan stend jeg vid leingi, þegar mér er skipad; ekki ætla jeg samt ad láta hann vita erindid, er ekki rétt?

Audun.

Ojú! rétt ypparlegt! (hún fer.)

## Sjøunda atridi.

### Sigrídur, Audun.

### Sigrídur.

Otrúlegt þykir mér nú það, að Andres skuli hafa brotist inn í skémmuna og stolið þar, og það í kvöld, þegar hann hafði ásett sér að biðja hennar Unu, hafði feingið føður sinn með sér í fylgi, var búinn að nefna það við mig, og afgjøra það með henni, svo á aungvum stóð, nema þér.

### Audun.

Þú getur ekki rekið sjálfa þig úr vitni þar um; klúturinn er dreiginn upp úr vasa hans, og nálarnar rifnar af hálsinum á honum.

### Sigrídur.

Já, það var nú það! hér var heldur einginn annar, og væri ekki Mánga svo kjoptug og kindug, sem eg alltíð hefi grun um, svo væri hennar vitnisburður nokkuð óhaganlegur fyrir Andres; enn aldrei hefur neitt orð leikið á honum, og ráðvandasti maður er Gissur.

### Audun.

Ekki er leingi að að koma, og einusinni verður allt fyrst; fjandinn er ekki yðjulaus; hans pílur eru oldúngis óþreitandi, einginn sér við þeim, eins og honum Ívari skyttu. Til dæmis: Ívar læðist, Ívar siktar, Ívar skýtur, hæfir, tóa fær skotið, teygir sig niður á jørðina, deyr, verður tekin, gripin og fleigin. Skollinn læðist, siktar, skýtur, hæfir; Andres fær skotið, teigir sig inn um skémmu gluggann, stelur, verður gripinn af boðlinum og fleigin af honum húðin á einu augnabliki; skilur þú mig nú? heillin mín!

## Attúnda atridi.

(Heyrist litid þrusk, lokid upp, Gissur kémur, dragandi Margrétu undir hendinni, sem ei getur siadid; hann heilsar, Audun tekur þurrlega undir, enn mædgurnar vel).

### Gissur, Audun og Una.

### Gissur.

Nú þóttist jeg heppnastur madur, ad jeg gat hjálpad þessum aumingja; hún lá á svellinu fyrir nedan skémmuna; hefur dottid, og gat ekki reist sig, þvi hún hefur glettilega meidt sig i lærinu; hún hefdi þar dáid, ef jeg ei hefdi komid; þad er og nær þvi samvitsku verk ad senda kvennfólk út i náttmyrkri i svoddan bandans hálku.

### Audun

(þurrlega.)

Jeg spyr ad samvitskunni hans Hrólfs.

### Gissur.

Betst er ad gjæta ad, hvad ad henni geingur; hún gétur ekki geingid. (Margrét hljódar stundum og veinar sér.)

### Audun.

Hvornig geingur Hrólfi? spyr eg!

### Gissur.

Nú, nú, nú, nú! hana þá! jeg er kominn aptur á honum Raud þinum, og þar eru tveir riksdalir, sem þú gafst ofmikid fyrir klútinn og nálarnar (fær honum.)

### Audun

(feginn.)

Blessadur vertu fyrir! enn (hugsar sig um) sidan

þú fórst, er brotin upp skémman mín, og klútnum og nálunum stolid; jeg nádi þjófnum, dró upp klútinn, leysti úr nálarnar, og vildi binda hann til morguns.

Gissur.

Pad var rétt; lymska, þjófnadur og lýgi eru þeir lestir, hvar í manneskjan yfirgeingur skinlausar skepnur.

Audun.

Hér eru kostirnir (sýnir klút og nálar) þekkir þú ekki aptur klútinn og nálarnar?

Gissur.

Ojú! ekki sé jeg betur (skodar klútinn) ójú! sami held jeg þad sé. (Skodar nálarnar) þær eru af silfri sé jeg; enn þad var eins og mér sýndist hinar af metal, enn þad er vísast jeg hafi litid skakkt til, enn sama er módellid.

Una

(bragdfljót.)

Hrólfur sagdi og, ad stokkt væri í nálunum.

Audun.

Þeigi þú! hef eg nú rángt gjört ad arrestera þjófinn, hvorra manna sem hann er?

Gissur.

Þó þad væri minn eiginn sonur, þá kann jeg þad ekki ad lasta; enn á slet sýslumanns áttu strax á morgun ad slitja hann.

Audun.

Má jeg ei láta sækja hann? svo þú spyrjir hann sjálfur!

Gissur.

Ekki skipti jeg mér af því, enn þó máttu ráda.

Audun.

Sigridur min! getur þú ekki sókt hann?

(hún játar, fer út, Una er óróleg, enn Audun geingur um gólf.)

## Níunda atridi.

Allir þeir fyrri og Andres.

Andres

(kemur inn og heilsar fødur sínum, enn Sigridur kemur á eptir.)

Hér er eg ordinn fyrir þjófnadar sok, fadir minn! enn er saklaus.

Gissur.

Hefur þú stolid þeim klút og nálum, eda eru þær þér áhángandi?

Andres.

Já hvorttveggja á jeg.

Gissur.

Þorir þú ad ljúga ad honum fødur þínum? þinn! þinn! . . .

(tekur til ad skjálfa.)

Andres.

Ekki er jeg þjófur og aldrei veit jeg mér hafa verid kent þad fyrr.

(Gissur svo sem ádir upp, og vill berja Andres; þær mædgur vilja stilla hann, enn hann hrindir þeim frá sér, hrasar þá Sigridur um kistilinn Margrétar, sem byltist um, og út úr honum veltur sá fyrrnefndi bøgg=

ull. Þennan grípur Una, finnur þar klútinn og nál-arnar, og hljóðar upp yfir sig og seigir.)

Una.

Hérna faðir minn! (Gissur er þá tekinn til að dusta Andres, enn gjætir þó loksins að og seigir.)

Gissur

(tekur á móti.)

Hvað er þetta?

Una.

Úr kistlinum hennar Margrétar.

Gissur

(skoðar og grundar.)

Þetta er það rétta! seigðu mér nú Margrét! allan sannleik, eða jeg skal . . .

Margrét

(hrædd.)

jeg skal... jeg skal... fyrirgéfið mér! jeg fann skémmudyrnar opnar, og stal jeg þessu; ætlaði jeg að gefa það honum Jóni minum í hjáleigunni; ætl-aði jeg nú seinast að hlaupa til hans, og láta hann vita hvað hann skyldi seigja; enn jeg datt á svell-inu fyrir utan skémmudyrnar; jeg held jeg hafi brot-ið í mér lærið; ætlaði jeg að koma öllu uppá Andres, því jeg vissi að Gissur mundi hafa einhvor ráð að frelsa hann; hér er allt.

(Una er glöð, enn Sigríður undrunarfull, Auðun nudd-ar hnefum saman, enn Gissur stillir sig.)

Gissur

(til Margrétar.)

Þú ert bæði stórþjófur, drottins svikari, og for-ráðamaður saklausts úngmennis.

Margrét.

Jeg tilstend allt, og á undir ydar dómi; enn í þrjú ár, sem jeg hér verid hefi, hef jeg eingin laun feingid, hef jeg því ordid ad prakka mér til, þad jeg hefi getad til fata og annars, komast hef jeg viljad hédan fyrir laungu, enn af því jeg hef ei feingid laun mín, hef jeg ordid ad bída, þó ætladi jeg nú ad vori burt, þó aldrei hefdi jeg feingid einn skilding, því vid Jón litli í hjáleigunni, ætludum ad taka saman, þrátt fyrir Auduns þakk.

Audun

(bislur.)

Fyrst skal jeg nú gipta þig því heila hákonúnglega tukthúsi.

Gissur.

Rétt held jeg hún sé þar til kjörin; enn þó má jeg seigja þér, Audun minn! ad sá sem ei lætur vinnufólk fá í réttan tíma þad sem þad á ad hafa, kennir því ad stela, og fleiri óknytti, ef til vill. Enn annad var mitt erindi, þad er stutt! viltu ekki gefa honum Andresi hana Unu dóttur þína? módir hennar er þar ekkert á móti, og stúlkan sjálf því ekki fjarlæg.

Audun

(þeinkir sig litid um.)

Þá er allt þegar þrennt er, og herna er mín hönd, Gissur!

Gissur.

Höfum vid þá öll handsalad þeim kaupum (öll handsala í einum hnappi); hérna mun þá ei þurfa vitna vid, enda er hér einginn vandalaus, sídan Margrét datt úr sögunni.

Margrét.

Jeg get þó verid ydur gott vitni, Gissur gódur! ef þér forlíkid mína ysirsjón vid húsbændurnar og fyrirgefid mér sjálfir, þad jeg misbrotid hefi vid ydur og son ydar, og fríid mig svo frá tukthúsinu; enn í minning þess ad hann Andres og hún Una min trúlofudust á þessu kvoldi, sem mér stendur til ad verda þad lukkulegasta og honum Jóni mínum, þá veit jeg víst, ad þau leggja sína bón fyrir mig, og þá er jeg frelsud; jeg skal eptirleidis . . .

Andres og Una

(bædi í einu.)

Ojá! fadir minn! æ! módir mín góð! forlátid henni Margrétu!

(Þau klappa, kyssa og fadma til skiptis sem vingjarnlegast Audun, Gissur og Sigridi.)

Audun.

Nú! hana þá! ójá, þad skal vera; enn snáfadu strax burtu af þessu heimili, Mánga!

Margrét.

Ojá! (grípur kistilinn og kvedur med mesta hasti.)

Andres og Una

(taka þann stolna klút og nálar, og gefa henni ad skilnadi.)

Eigdu þad sem þú hefur ablad, Margrét! og sé þér þad ætíd hugvekja, ad ydrast brota þinna, halda þér frá þeim, betra þinn lifnad, og hugsa jafnan til þess, ad þú fyrir annara medalgaungu bjargadist, og leidst ekki skipbrot á æru þinni.

(Hún haltrar út, enn hinir fara litlu seinna.)

## Þeir sem leika eru:

---

Guttormur, lögréttumaður.

Jón, sonur hans.

Ragnhildur, dóttir hans.

Nikulás, vinnumaður hans

Olafur, niðursetningur.

Dalstæð, kaupmaður.

Narfi, hans Assistent

## Fyrsti þáttur.

---

### Fyrsta atridi.

(Ragnhildur og Jón sitja vid eitt bord og eru ad skrifa, Nikulás litur á hjá henni og seigir þeim til á vixl.)

Nikulás, Jón, Ragnhildur og Olafur.

Nikulás

(til Jóns.)

O! sussu! þú setur svo illa, Jón minn! fylgdu beinleidis reglustrikunum, 'rétt áfram! sona.

Jón.

Jeg sé þau ekki vel, því ljósid ad tarna logar svo illa.

Nikulás.

Jeg skal taka af skarid (tekur af skarid.)

Jón.

Jeg vildi jeg ætti spángagleraugun stóru hans fodur mins, og nefid á mér (grípur upp á þad) væri ordid svo stórt.

Nikulás

(brosir.)

Margur ágyrnist meir' enn þarf, Jón minn! (til Ragnhildar) æ! tarna eru ljótir bókstafir af fallegri stúlku, þad er eingin stafs mind á neinu, nema á

þessum þremur; horfðu á þarna N. A. R. það er bærilegt, ef allt væri eins.

Ragnhildur.

Æ! það kemur af því, Nikulás minn! að það eru fyrstu bókstafirnir í nafninu hans assistents Narfa, (með blygð) eða jeg veit ekki — hans — jeg má ekki skrökva.

Nikulás
(dregur eptir sér.)

Assistents Narfa! getur þú ei eins vel vanið þig til að skrifa N. J. C. svo sem N. A. R? jeg vildi jeg mætti ætíð stýra á þér hendinni, Ragnhildur min!

Olafur
(kemur inn með mesta fasi, hlátri og ólátum.)

Hann rak, ha, ha, ha! hann rak, hann Guttormur rak, ha, ha, ha! hana Imbu, ha, ha, ha! út í æ! fjós, með harðri hendi.

Nikulás
(bistur.)

Láttu ekki svona, dreingur! tarna er mikið ljótt.

Olafur.

Stelpan vildi ekki gegna, ha, ha, ha! enn hann; ha, ha, ha!

Nikulás.

Tarna er ljótt skraf og leið læti, Olafur!

Olafur.

Ef hann hefði mindað sig til að lemja mig, þá skyldi hann . . .

Nikulás
(gjörir sig alvarlegan og geingur til hans.)
Pá skal jeg reyna (hótar með hendinni.)

Olafur
(æpir.)
Æ, æ! ætlarðu að berja mig? jeg er niðursetningur! 'guðs vol-að-ur! jeg er, held jeg, vol-að-ur; jeg fer þá strax til prestsins, þú átt ekki neitt með mig! nú, nú! (hljóðar.)

## Annað atriði.

### Guttormur, Olafur og Jón.

Guttormur
(kemur inn með bónda svip miklum.)
Hvað er þetta? hvað geingur á? því læturðu svona Olafur?

Olafur.
Hann Nikulás ætlaði að berja mig, enn jeg er niðursetningur!

Guttormur
Fyrir hvað?

Olafur.
Fyrir ekkert! jeg guðs (eymdarlegur) voladur!

Guttormur.
Fyrir eitthvað hefur það verið; (bistur) seigðu satt!

Olafur.
Jeg vildi fá söluvetlinginn minn, enn . . .

Jón.
Hann Olafur skrökvar, faðir minn! hann lét illa og talaði svo ljótt.

Guttormur.

Þegi þú, Jón litli! jeg heyrdi það sjálfur, sjá mér vøndinn!

Olafur.

Jeg er nidursetningur!

Guttormur.

Jeg veit það, því heldur.

Olafur.

Mig vantar prjónana mína.

Guttormur.

Mig vantar vøndinn.

Olafur.

Jeg skal fara strax að prjóna.

Guttormur.

Jeg verð ádur að finna þig dálitið; hvor hefur skipað þér að prjóna? ertu búinn að lesa upp leksíuna þína?

Olafur

(veit ei hvað skal seigja.)

Ðjá!

Guttormur

(nálgar sig honum.)

Olafur.

Æ, nei! nei! húsbóndi gódur! jeg skal strax fara að lesa og taka upp kverið mitt.

Guttormur.

Og hvorki hefur þú kembt þér í dag né þveigið þér.

Olafur.

Í morgun þvodi jeg mér, þó úr pollinum, enn það hefur síðan óviljandi fallið á hendurnar á mér.

Guttormur.

Hvor hefur sagt þér, að þú skyldir þvo þér úr óhreinum polli.

Olafur.

Það er nógu gott handa mér, því jeg er niðursetningur.

Guttormur.

Jeg skil þig, og það er nú vegna þess, að þú ert ótætis niðursetningur og illa vaninn, að jeg verð að strikja þig (kemur með vöndinn) réttu nú fram báðar hendurnar!

Olafur.

Æ, æ! fyrirgefið mér! fyrirgefið!

Guttormur

(grípur um báðar hendur hans.)

Ætlarðu þá aldrei að vera nema skikkanlegur héðan af, og lofarðu því fast og stöðugt?

Olafur

(dauðhræddur og titrandi.)

Jeg skal aldrei vera skikkanlegur héðan af, fast og stöðugt.

Guttormur

(svo sem hálfhlessa.)

Bágt er við þig að eiga, dreingur! hamingjan fyrirgefi þeim sem ekki hafa siðað þig betur áður; (kastar vendinum) ertu gamall?

Olafur.

Jeg var 13 vetra.

Guttormur.

Hvonær þá?

Olafur.

Það veit jeg ekki, einhvorntíma.

Guttormur.

Já, já! hvad hefur þér verid kennt?

Olafur.

Mér var kennt ad taka lykkjuna i fyrra, og (fer lít- id ad hressasi) jeg held jeg komist nú af med einn þumal, þvi þad var svo rekid eptir mér þar sem jeg var.

Guttormur.

Hvornin var rekid eptir þér?

Olafur.

Hjónin bordu mig bædi, og svo fékk jeg aungva gráslepppuna þann daginn hjá þeim ad borda, ólukku hjónunum.

Guttormur.

Vondinn, vondinn! fljótt, fljótt!

Olafur

(hljódar.)

Æ, æ! jeg skal aldrei borda gráseppu hédan af, fast og stodugt.

Guttormur

(hálfbrosir og kastar aptur vendinum.)

Þú áttir ad hýdast fyrir ordin sem þú taladir.

Olafur

(litid hressari.)

A jeg þá aldrei ad tala, af þvi jeg er nidurset- ingur.

Guttormur.

Aldrei þad sem ljótt er, edur tala illt um adra, mundu þad!

Olafur
(friskari.)

Jeg skal muna, já, já! nú man jeg það; tala illt um aðra.

Guttormur
(hristir höfuðið.)

O! ekki tala illt um aðra, sagði jeg, og aldrei nema blessa fólk, einkum þína húsbændur, þó (alvarlegur) misjafnir hefðu verið.

Olafur
(vingjarnlegur.)

O, já! blessaður húsbóndi minn! jeg átti í fyrra staf, og náði jeg mér` hestskónagla einhvorstaðar þarna sem jég var, og rak hann neðan í stafinn, og reið svo og skeiðaði, hoppaði, frisaði og fretaði; það var gaman! enn þegar jeg átti að fara til yðar, blessaði húsbóndi! þá tók ólu . . . blessaður átti jeg að seigja, húsbóndi minn hann af mér, og sagði jeg væri blessaður — já! það má jeg þó ekki seigja til vísu — þjófur —; jeg`lét það svo vera, því jeg hugsaði með sjálfum mér: þegar þú ert orðinn stór, Olafur minn! þá verður þú einhvor stóra — stóra — maður, hár — hár höfðingi, ellegar veraldar Belsibubbur, síðan þú allt ert orðinn þjófur núna, svo litill.

Guttormur
(afsíðis.)

Nú verð jeg fyrst hlessa, hér lætur til að vera góðar gáfur, enn illa kjæfðar; (hátt) bið þú Drottinn að hjálpa þér og varðveita, eða kanntu ekki nokkra bæn?

Olafur
(rétt uppvedradur.)

O, já! blessadur húsbóndi! blessadur!

Guttormur.

Lát mig heyra.

Olafur.

(med spentum greipum og hlæilegu útliti, drætti og stundum áhlaupum.)

Ojá! gjarnan.
Geing jeg út fyrir dyr,
geing jeg inn fyrir dyr,
fylgja mér fjórir
eda fimm Guds englar;
sing jeg sálmana sjö,
sinn i átt hvorja;
ljósid þitt lánga
lýsi mér í paradís ad gánga.

Guttormur
(smá hlær nú, enn lætur ei Olaf sjá þad.)

Jón.

Æ! tarna er falleg bæn, hana kann jeg ekki.

Guttormur.

Þad gyldir þá einu, barn mitt! (til Olafs) geturdu ekki súngid neitt gott sálmvers?

Olafur
(hoppar af gledi.)

O! já! jeg kann mörg falleg vers úr Geniass sálmum gódum.

Guttormur.

Þú vildir máske seigja Genesis sálmum; enn láttu okkur samt heyra eitt vers.

Olafur

(grípur sér stól, sezt niður og rær sér, byrjar svo bæði laglaust, blæilega og svartagaulslega.)

Þau voru rekin út með staur
hún Eva min og sá lángi gaur,
orkuðu síðan út með sjó
af sér geingu sokka og skó;
börnin áttu þau bisna mörg,
bæði voru þau löt og körg,
þó var eitt verst og þess var von,
það var hann Kain Adamsson;
allt fór þetta út á sveit,
ei var gefið að jeta neitt;
hreppstjórarnir svórnðu þá:
svoleiðis má ei til gá;
hann er afgamall mann,
og hún uppgéfin konan.

(meðan þessi saungur varir, getur einginn bundist fyrir hlátri, enn Olafur herðir sig því betur.)

Guttormur.

Hættu, dreingur minn! jeg vil ekki heyra meira af þessu.

Olafur

(hænist að Guttormi.)

Saung jeg þá ekki nógu vel? húsbóndi góður!

Guttormur

(litur blídt til hans.)

O, jú, jú! þú brúkaðir þitt lag, enn versið likaði mér ekki; jeg skal láta kénna þér annað, sem er fallegra, Olafur litli! og það skaltu fá lof til að sýngja.

Olafur

Æ, já! feiginn, blessadur húsbóndi minn! (í því sama var barid.)

Guttormur.

Ljúktu upp, Ragnhildur litla!

(hún gjørir svo.)

## Pridja atridi.

Narfi, Ragnhildur, Olafur, Nikulás og Guttormur.

Narfi

(klæddur uppá hádønsku, kemur inn med mestu apakattar enn þó klaufalegum komplimentum, og vill agera einn petitmeter.)

Tjenere! skyldugur Tjenere! alle til samans (til Ragnhildar) og min litla putelaar! god Aftes! min aller beste! (kyssir hana) vill hún ekki seigja: mangel Tak! mos Narfi!

Ragnhildur.

Komid þér sælir, monsjør Narfi!

Narfi

(til hinna réttir hann hendina med skrítnum líkamans beigingum og frugti.)

Gódan Aftes, Herr monsjor Guttormer! sail være thig Jón litill og du Niculás min! (til Olafs) sælir nú, piltur min! hvad heitir thu smaur? jeg tekker thig intet (réttir til hans hendina, enn Olafur réttir á móti.)

Olafur.

Jeg heiti nidursetningur, Guds vol . . .

Narfi

(kippir til sín hendinni og þurkar)

Æ, æ! skraddinn sjálfur!

Olafur.

Ef þér hafid brennt ydur, þá er betst ad bera strax á skøtulýsi, blessadur!

Niculás.

Þú ert aungvu sídur læknir enn saungmadur, Olafur!

Olafur.

Mér er einskis varnad, þó jeg sé nidursetningur!

Narfi.

Ja du skulle hafi gálgen, og siden þar upp á setjast i tugthúsid, þú gavstrikkur! skal en assinstint vaske uppá sine hender med skøtu lýsi! hvad? jeg vil thu var kominn i saltfisk hjá min herra, du skulle fá fleiri høgg enn der er sand i strand.

Guttormyr.

Fardu út á medan, Olafur litli! þér er ekki hent ad vera i fjølmenninu ad sinni, og fardu med honum, Jón minn!

Olafur

(fer med Jóni.)

Verid þér sælir, húsbóndi blessadur! og þér monsjör Nar assinstint! (apar eptir Narfa komplimentin, fer svo út.)

Narfi.

Bràvu! pravu! jeg taalte int ikke af den skrák lýses lykten sin, nu fæ jeg thó róligheit (snýr sér til Ragnhildar.) at tala vid min dæilega litla púta.

Nikulás.

Ragnhildur er eigi von til, ad láta sig kalla púta, skilur þú þad? Narsi minn!

Narsi.

Púta, púta! det er hún uppá dansk, ben og dand! og svo vil jeg titulera henni, min sólbjarta jómfrú! má jeg ekki kyssa uppá henni hendina? min hjarta þjúf!

Nikulás.

Ekki kannast Ragnhildur heldur vid þjófs nafnid af þér.

Narsi.

Det er alltsammen uppá sin há dansk, thi jeg foragter nú at tale det íslandsker sprok, allt út af vana tóm — enn jeg har int ikke noget at skaffe med thig, Nikulas min! og thu mátt vita ad respectera en assinstint, sem jeg er — jómfrúin min er int ikke forleigin, og verdur þad aldrei fyrir bónda strák, sem þú ert.

Nikulás.

I minni bónda stétt ætla jeg mig samt ærlegri, lukkulegri og jafnmikinn mann sem þig, því hvorki kantu og ekki heldur vildi jeg virda þig til ad moka flór hjá einum ærlegum bónda.

Narsi

(verdur uppvægur.)

Mukke flór! mukke flór! fy! fy! æ! gef mér einn pulkakk saupkin! veistu int ekki ad tale med storri respekt um fólk af obstruktión, svo sem min prinsmetal herr kaupmadur Dalstæd, og mig,-sem er hans hoieste assinstint, þar hefur árlegan gasse, uppá toe

hundrud og fðr tredsinstyve rigsdalir i bara harde spesiur.

Guttormur.

Verid þid hægir.

Narfi

(hissugur.)

Skal den karl tortura mig? hefdi jeg ekki mine danske klæder uppá, þá, þá . . .

Guttormur.

Stillid þér ydur, monsjor Narfi! þér skyldud heldur venja ydur á ad tala ydar módurmál enn þessa skritilegu donsku, sem menn ekki skilja hér á landsbygdinni einkum stúlkurnar.

Narfi

hissugur.)

Nei, ben og daud! skraver jeg int ekki islandsk, thi jeg vil vera danskur frá hvirfill til ilja (bendir á sig), fra brost til botn og allt um kring.

Olafur

(kemur snogglega.)

Hesturinn, monsjor Nar! er farinn upp á heigardinn, og þad sem á honum var, er allt i slitrum hingad og þángad út um hladid.

Guttormur.

Jeg verd ad fara, kom þú med mér, Ragnhildur!

Narfi

(litur ámátlega eptir henni.)

Æ! sæta púta!

(Guttormur og Ragnhildur gánga út.)

## Fjórda atridi.

### Nikulás og Narfi.

Nikulás

(spottskt til Narfa.)

Pútan þin er nú i hunda kjøptunum úti á hlad-inn eptir spádómi Olafs nidursetnings.

Narfi.

Jeg vil slétt eingin uxaheiter hafa af dig, þinn thorpari!

Nikulás

(geingur til hans med audmýktar skyni.)

Jeg bid ydur um undirdáuuga fyrirgefningu, mons-jør Narfi! herr assintint, vildi jeg sagt hafa.

Narfi

Já! thad lidur jeg, Nikulás min! og skikka thú ther skikkanlegur, tha (Nikulás hefur á medan tekid um hann midjan og kreystir), au! au! vær stillen, Nikulás! trællen din!

Nikulás

(heldur sinum tøkum.)

Jeg ætla nú ad kreysta úr þér dønskuna og vind-inn.

Narfi

(hljódar.)

Slepptu mér, skraddinn din!

Nikulás.

Nógur er enn þá vindurinn i kálfsbelgnum.

Narfi

(hljódar og spriklar mjøg.)

Ætlar þú ad drepa mér? jeg er assinstint kaup-madurins herr Dalstæds.

Nikulás
(kreystir enn.)
Bísna vindur er enn þá í þjánkanum.

Narfi
(spriklar, skrækir og lætur illa.)
Slepptu mér, slepptu! æ, æ! hættu, hættu! ben og dauð!

Nikulás
Enn þá fretar í lánganum nokkuð.

Narfi.
Æ, æ! blessaður Nikulás minn! drep þú mig ei, slepp þú mér.

Nikulás
(heldur enn.)
Er þá danskan og vindurinn úr krónni?

Narfi.
Æ, æ! já, ójá! meir enn já! (Nikulás sleppir honum.)

Nikulás.
Þar sér þú, við að apa eptir Dönskum svo skarnlega, gjörir þú þig hvorki hraustari, æruverðugri eða ærlegri, enn þú fyrri varst.

Narfi
(tekur eptir veðrinu.)
A, já! það er satt, jeg verð að gjöra það.

Nikulás.
Hvorsvegna? jeg skil ekki því þú vilt gjöra þig að narra, og góðum dönskum mönnum svívyrðing, því aldrei hefi jeg séð neinn bliksfullan matrós, láta þeim látum, sem þú lætur.

Narfi.

Jeg verd ad láta svo, ad einfaldt fólk, hafi nokkurt álit fyrir mer; og þó jeg ætti ad skrifa Ingvari bodli til,' þá á það vera á hádönsku; þá er jeg haldinn lærdur madur, hofdingi, kallast herra, veledla, hávis, velæruverdugur, hálærdur, bædi velbyrdugur og — borinheit; þetta kallast praxus, og lands sidur ér lands æra (slær hann fyrir brjóstid), skilur þú? Nikulás!

Nikulás.

Já, já! enn lands sidur, ef ósidur er, verdur lands skömm, (slær hann fyrir brjóstid) enn hvor er þinn tilgángur?

Narfi.

Seigdu þá ekki eptir mér, Nikulás!

Nikulás

Ekki skal jeg það, ef svik búa ekki undir.

Narfi

Nei! enn hvor er þjófur i sinni næringu, seigir danskurinn minn. Jeg er ad sækja eptir dóttir lögréttumannsins, og hana fæ jeg ekki, nema jeg sé hofdingi, enn það er jeg, þegar jeg er sprokverskur og spjátrúngur; jeg verd ad vera vel ad mér og rikur, þvi rikur sækir rikan heim (slær sig fyrir brjóstid.)

Nikulás

(hálf sorgandi.)

Ætli þér takist þetta?

Narfi

Sá hefur allt, sem kjapta kann; (nú er lokid upp dyrunum) þei, þei! i hamingju nafni!

## Fimmta atridi.

Þeir fyrri og Guttormur,

Ragnhildur og Olafur.

### Guttormur.

Jeg setti hestinn ydar inn, monsjør Narsi! og hún Ragnhildur litla hyrdti þófann.

### Narsi

(i sinni fyrri mynd.)

Taksigelse! tak! jeg siger gratsias! enn nu vil jeg skrave nokkud med thig, monsjør Guttormur min! nú fyr enn jeg farer uppá thad, tha má jeg hava einn polikakk af thjer.

### Guttormur.

(undrar.)

Polikakk! nú skil jeg ekki donskuna.

### Narsi.

Eina súppkind thá, Guttormur min! thad er kvol, ad thu int ikke skilur danskurinn.

### Guttormur.

(til Olafs.)

Sæktu okkur hérna, Olafur litli! brennivins flöskuna inn á bordid, og glos á diski.

### Olafur.

Já, já! jeg skil — jeg veit,

(hleipur út med vidlika komplimentum og hann hefur séd til Narsa, sem frá fyrsta til seinast og alltaf fram eptir, er ad bugta, skrapa med fótunum og fálma med høndunum.)

### Narsi.

Thad er thá, sem jeg ville skravad hafa: ad jeg

er assinstint hjá herr kaupmadurinn Dalstæd, og hefur út i løin 200 og hálf — hálf — hálffortredsindstyve rikisdaler úti beinharder spesies daler.

Guttormur.

Pad eru góð laun, og hefur einginn prestur hér á landi slik.

Narsi.

Ha, ha! ekki, ben og daud ekki! og thad er med skirnarpæl og púsounartolli og lambefoder iberegnet; þar for utan hefur jeg smá hagnadur vid hondlunina, svo sem lekabytturnar til dónerne på pælen, og i eitt staab, sem their seigja; skildingurinn fyrir thad potar sjálfur jeg i vasan minn, thi minn herra hefur sagt mér thad, thi thad vill hann ekki selja til nokkur madur, thad hefur hann yfirlátid til monsjor Narse, (ber sér á brjóst og reigir sig stórum.)

Guttormur.

Ekki likar mér þad svo vel ad skeinkja fólki af leka byttunum og taka fulla peninga fyrir.

Narsi.

Thad er nógu gott i dóninn, og vill hann gabe vidt svo má hann og opna púnginn vidt; (Olafur kémur inn med fløskuna, diskinn og þrjú staup á honum, setur á bordid og skeinkir á þau.)

Guttormur.

(bendir á bordid.)

Verid svo gódir!

Narsi.

tekur sitt staup og gjørir sin hlæilegu kompliment fyrir øllum, einkanlega fyrir Ragnhildi.)

Skaal! skaal! besti, besti eingel, jómfrú Ragnhildur!

Guttormur

(tekur og sitt staup og drekkur.)

Jeg þakka!

Olafur

(starir litið á Narsa, þeinkir sig um, hleypur til og gripur það þriðja staup með sømu komplimentum og Narsi hefur brúkað og apar þau eptir.)

Skál! skál, besti bengel, monsjør Narsi afsinstint! (drekkur.)

Narsi

(tekur sér fyrir æru, og komplimenterar honum.)

Disse stråkur getur snart blivet danskur.

Guttormur

(nokkuð bistur við Olaf.)

Hvor skipaði þér að drekka? dreingur!

Olafur.

Þér skipuðuð svo fyrst: sæktu okkur floskuna og glos; þetta vissi jeg ekki betur enn væri til okkar þriggja, og því kom jeg með þrjú staup, sem þér funduð ekkert að; síðan sogðuð þér: verið svo góðir! og það hélt jeg væri til okkar þriggjá, nefnilega yðar, monsjør afsinstint Nar! og min, því þó jeg sé dálitill, þá verð jeg þó sá þriðji, þegar tveir eru áður.

Guttormur.

Þú kannt ekki að skikka þér blandt fólks; far þú út! þú mátt ekki vera hér inni þegar framandi menn eru hér.

Olafur
(løtrar.)
Af því jeg er nidursetningur (fer.)

Narsi
(til Guttorms.)

Nú thá til efnid, monsjør Guttormer! jeg hefur thá bestu laun í veroldin, og than bestu húsbónder sem gefast kann, thad er herra kaupmadur Dalstæd.

Guttormur.

Og hann þekki jeg, þad er sá allra betsti madur, og aungvann hefur mér betur líkad vid enn hann; hjá honum hef jeg alla mína kauphondlan, og mun hafa, því hann hefur reynst mér prýdilega.

Narsi.

Jeg veit thad altsamann, thi jeg hefur alla hans reikningur, og skrife thá allesaman, og stendur fyrir allan høndlún; hann plagar alltid ad síga: hafdi jeg thig int ekki min bróder, monsjør Narsi! svo... svo var jeg fyrir lángan tíma sídan, kominn út á húsgánginn.

Guttormur.

Þad veit jeg þó ad hann bædi getur skrifad og reiknad.

Narsi.

Ojá! já! thog er jeg lángtum betir, jeg thorir at bjóde allur veroldin út í Amerika og Gálgabrá.

Nikulás
(assidis.)
Já! gálgabragdi værir þú maklegastur.

Guttormur.

Það er nauðsynlegast á þessari tíð, að kunna bæði vel að skrifa og reikna; því er nú Nikulás að kenna hvorutveggjn bornum minum, Jóni og Ragnhildi.

Narfi.

Nei, nei! ben og dauð! jeg skal sjálfer belæra jómfrú Ragnhilder, enn — a profos, herr Guttormer! út i alla mina velstandsheder, vantar jeg nokkuð i sængen!

Guttormur

Það á jeg bágt með að láta yður fá, því jeg brúka mest ullar rekkjuvoðir; jeg á að sönnu ein línlök, enn jeg má ekki þarfnast þeirra, ef mann bæri að minum húsum.

Narfi.

Jeg taler int ekki um rekkjuvoðir, monsjor Guttormer! men láte thjer mig fá i sæng mina, thað er thað . . .

Guttormur.

Fiður hef jeg ekki aflogn, enn dún er hér ei á öllu heimilinu.

Narfi.

N, æ! nei, nei! thjer skiljið mig int ekki! jeg meinar int ikke lagener, ikke rekkevoð, ikke fider, ikke dunen, enn men det er (bendir til Ragnhildar) denne litil jómfru, jeg vil, stutt og gott! eiga hana, og svo hafa hana alla mine lifets daga, thað vil jeg, og thað skal jeg, thað trister jeg mig til.

Guttormur

(dregur eptir sér.)

Viljið þér eiga hana Ragnhildi dóttir mina?

### Narfi.

Já, já! og annast hana heilbrygda, sjúkur, sem einn dánumann eignar og anstáir, (allir þeigja nú litid, hvor grundar fyrir sig, Nikulás sýnir sig sorgfullan enn Ragnhildi sýnist um og ó; loksins kvedur Narfi upp úr og seigir) fær jeg thá ekki stelpen thin, Guttormer min? (Guttormur grundar enn nú nokkud, Narfi byrjar aptur), hún fær, skraddinn hafi mig! aldreigi betri mann enn jeg, (ber sig á brjóst) sem hérna stendur, (sýnir sig ellum, og rembist heldur enn ekki) jeg er farlegur madur, jeg er handelsmadur, jeg er kaupmadur, jeg er saltfiskemadur, stutt og gott! jeg er madur yfir alla Íslands madur, og kemur jeg i selskab, thá situr jeg alltid fyrir ofan prester og sýslumann, ha, ha, ha! já! máske suma af løgmadurinn med; (hlær óskaplega) hvad seigir hann nú, min góde Guttormer? (Guttormur grundar sem fyrr, og allir hinir) jeg vil svar hafur, thi det kann jeg láta hann vita, at jeg tharfur int ekki ad standa leingi á hnjánum fyrir honum og stelpen.

### Guttormur

(stiggur vid.)

Nú, nú! hafid þér nefnt þetta vid stúlkuna sjálfa? hvorju svarar hún?

### Narfi.

Hvad, hvad? stúlken lister mig, og leiker paa mitt vold thegar jeg vil hafa.

### Guttormur

(til Ragnhildar.)

Hvorju svarar þú?

Ragnhildur.

Jeg læt ydur ráda, fadir minn gódur!

Narfi

(geingur til Ragnhildar.)

Lætur thu honum rada? hefur thu nokkud uppá mér ad setja? (sýnir henni sig allan og snýr sér øllum í kríng) er jeg ekki vakur karl? thegar thu er bleven min kona, thá skal jeg eiga thig, og thú skalt thá eiga mér, jeg ætlar strax ad klæda thig uppá há dansk, thú skal hafa thrjá til fjóra silkikjóla, og fimm til sex silkipels, og sjo til átta setur yfir høfudid, thetta gefur jeg allt saman, thi jeg er rikismadur, nú, nú! svar! (hristir hana.)

Ragnhildur

(med þokkalegum frenjuskap.)

Pad skal vera rétt eins og hann fadir minn vill, og sé hann þar ekkert á móti . . .

Narfi.

Há, há, ha! thar hefur jeg stelpen, visse jeg thad ekki nokk; (kyssir hana flángslega) nú er du min og jeg er din.

Guttormur

Bittinn! bittinn!

Narfi

(hissugur.)

Hvad? bittinn, bittinn! skraddinn! thegar jeg vil, hefur jég stelpan, og stelpan vill hefur mig; fæ jeg thá ikke stelpan?

Guttormur.

Vid skulum ekki eyda morgum ordum, Narfi minn!

Narfi
(hissugur.)

Assinstint! monsjor assinstint! já Herr assinstint! meigid thjer seigja, thegar thjer tálid vid mig og mína líkur.

Guttormur

Jeg vil heyra mig fyrir hjá odrum um ydur fyrr enn jeg gef ydur fast loford; min fodur skylda býdur mér, ad eg þekki þann mann nokkud grandt og ad ollu gódu, sem jeg sel barn mitt til tímanlegs ósundurslitanlegs teingdabauds, enn merki jeg nú ad allt sé satt sem þér séigid, þá veit jeg ei nema . . .

Narfi
(stampar og stærir sig.)

Ætlar ydur thá, at jeg ligur allt thad, sem jeg hefur sagt? thad sem jeg seigur, er eins og presturinn seigi thad, jeg er einginn ljúgari, monsjor Guttormur! veit hann thad? ef jeg int ekki vildi vera hans svigason, thá, thá, kynni jeg ad gjora hann ærulaus, skilur hann mér?

Guttormur
(reiduglegur.)

Svo hægt, svo hægt! (tekur i oxl Narfa, og vill svó sem leida hann til dyra), þú sagdist vera lærdur madur, því muntu þekkja húsbóndaréttinn, aungvir hafa ordid til þess, fyrr enn þú, ad nída hús min med skammaryrdum.

Ragnhildur
(hleypur i fángid á fodur sinum.)

Æ! verid hægir, fadir minn gódur! og talid ykk-

ur heldur saman! (Nikulás gjörir sig liklegan, til ad styrkja Guttorm, enn kasta Narfa á dyr.)

Narfi

(slær upp í gaman.)

O! blessud jómfrúin, hún er svo góð, ad jeg getur ekkert, enn linast allur saman upp, hún skal nú ráda öllu saman, og hvor getur stadid af sér svo fallegur kvennmann? hún bidur svo sætt og mjúkt, enn jeg sér og, monsjör Guttormur! at thu hafir int ekki aldeilis orétt, og forlætur jeg thjer allt fyrir thessa litla jómfrú, sem jeg skal hafur.

Guttormur.

Þú verdur ad gjöra, sem sagt hefi, betri skil fyrir þér enn þú hefur hingad til gjört.

Narfi.

Thad skal jeg gjöra strax uppá stunden, jeg bregder mig sem snarast heim til min, thá skal jeg koma atter med mina skudsmál, vitnesburder, attester, gull og silfur og bagge af bankósedler, og skal I nodast til ad trúa mig.

Guttormur.

Sjón er hvorri sögu fremri, og viljum vér þetta vist sjá, og þá getur betur umtalast.

Narfi.

Nú vil jeg fara på min hest, og thad strax, thi mig lángar svo hrædilega i hana Ragnhildi litlu; på bak! på bak! hvar er min pisk? thad var en islandsk pisk, med dansk snúd på enden.

Ragnhildur
(fær honum.)

Hérna, monsjør Narfi gódur!

Narfi.

Ha, ha, ha! já! gódur skal jeg thjer verda, heill-erenn min! adios! (kyssir hana) far vel hinir allir saman!

(brúkar ofbods kompliment, enn Guttormur fer med honum út.)

---

# Annar þáttur.

## Fyrsta atridi.

Nikulás og Ragnhildur.

(Hún vill fara út á eptir, enn Nikulás nær i hana og heldur henni aptur.)

Nikulás.

Ætlar þú, ad láta þennann gapa . . .

Ragnhildur.

Jeg! hann fadir minn seigist eiga ad ráda.

Nikulás.

A jeg þá ad missa alla von um ad eignast þig? i þvi skyni fór jeg þó til fodur þins, og hefi verid hjá honum i þrjú ár, og enn þá eigi feingid laun, allt fyrir þina skuld!

Ragnhildur.

Jeg heiti ekki Rachel, heldur Ragnhildur.

Nikulás.

Med mestu trú og dygd hef jeg þjónad honum.

Ragnhildur.

Þú hefur samt ekki þjónað honum í sjö ár, Nikulás!

Nikulás.

Annast hefi jeg um þig, síðan kom, sem best; kennt þér bæði að skrifa og reikna, og lesið getur þú nú og, þér til skemtunar, í danskri bók, og hefur þú þetta allt mér að þakka.

Ragnhildur.

Já! það er satt og rétt, Nikulás minn! og þess skal jeg ætíð minnast.

Nikulás.

Ekki má jeg herma það uppá þig, að þú hafir mér lofast, því meðan jeg átti að seigja þér dálitið til, vildi jeg ekki biðja þín, enn ráðið gatstu þánka mína af tilliti og umhyggju þeirri, sem jeg ætíð hefi borið fyrir þér, og viðleitni minni á að minna þig á sem best.

Ragnhildur.

Þetta seigir þú hvorju orði sannara, Nikulás minn góður! enn faðir minn hlýtur að ráða. Honum litst máske betur á hag Narfa, því hann kvað vera svo efnagóður, og kominn í góða kippilykkju.

Nikulás.

Ekki hef jeg séð í kistur Narfa, og sogð, enn ekki sýnd, er mér hans góða kippilykkja, og væri vel, ef lykkja sú eigi kjæmi um háls honum, enn þó þetta væri allt sannleiki, þá treysti jeg mér samt við Narfa í øllum dreingskap, trúmennsku og ærlegheitum; eða hvað heldur þú sjálf hér um?

Ragnhildur.

Ekki held jeg þú sért lakari að þér um alla mannkosti enn Narfi.

Nikulás.

Hvort viltu heldur kjósa ríkan mann og vondan, edur góðan fátækan?

Ragnhildur

(nokkuð seint.)

Góðan og sem er mér eptirlátur, og ekki efast jeg um, að þú yrðir það; enn ríkidæmið, ríkidæmið! metorðin! metorðin! þau ávinna allt, þau eru almáttug.

(Guttormur kémur inn aptur.)

## Annað atriði.

### Guttormur, Ragnhildur og Nikulás.

Guttormur.

(til Ragnhildar.)

Nú þar fékkstu biðilinn, barn! og jeg er því ei svo fjarlægur, sé það allt satt sem hann seigir.

Nikulás.

Jeg hef í snöggu áliti ekki neinn góðan þokka á Narfa; ætli dóttir þín geti nú strax skikkað sér í þeim lifernismáta, sem hann brúkar?

Ragnhildur

(í hálfum hljóðum.)

Ekki hefi jeg hingað til verið haldin svo eptirtaka litil.

Nikulás.

Því mér sýnist allt hans athæfi og lifernismáti vera furðanlega gikkslegur; að apa eptir framandi þjóðum í málfæri og limaburði, og gjora það skamm-

arlega illa, öllum heilvita mönnum til athláturs, enn blygdast vid sinn eiginn uppruna og módurmál, þann kalla jeg snáþ, er slíkt gjörir.

Guttormur.

Þú seigir það dag satt; madur á ad breyta eptir útlendum í kurteysi, hreinlæti, vingjarnlegheitum, saklausri ófeimni og mörgum ödrum kostum, enn ekki vera þeirra apaköttur í þvi; þá skér madur sig sjálfan á barkann, eins og hann fordum, þegar hann sá ad madurinn rakadi sig med hárknifi.

Nikulás.

Ætli hann sé virkilega það sem hann gefur sig út fyrir?

Guttormur.

Það fær madur ad sjá, þegar hann kemur aptur med sína vitnisburdi; jeg hef og í sinni ad spyrja kaupmann Dalstæd um hann, þvi hann seigir mér sannleikann; það er vænn madur, enn þó Narsi sé nú nokkud apalegur, þá hef jeg samt góda von um, ad hann temjist med tímanum eins og adrir, og goldnustu folar, verda þeir betstu hestar, seigjum vid, og það reynist opt sannleiki . . .

## Þridja atridi.

Þeir fyrri og Olafur (sem kémur inn med miklu ædi.)

Olafur.

Madur, stóra madur! ridur i hladid! ákaflegur madur! herra madur! skelfilegur madur!

Guttormur.

Hvor er kominn?

Olafur.

Já! þad veit jeg ekki, þad er madur.

Guttormur.

Er þad presturinn?

Olafur.

O! meiri madur, madur!

Guttormur.

Er þad hann bródir minn, Haldór lögréttumadur?

Olafur.

O! meiri madur, madur!

Guttormur.

Er þad sýslumadurinn?

Olafur.

O! meiri madur, madur!

Guttormur.

Er þad amtmadurinn?

Olafur.

O! meiri madur, madur!

Guttormur.

Er þad biskupinn?

Olafur.

O! meiri madur, madur!

Guttormur

(bisíur.)

Og er þad sjálfur stiptamtmadurinn? jeg veit aungv-an meiri hér i landi, utan Drottinn og kónginn; nú, svaradu dreingur!

Olafur.

O! meiri! sei, sei! meiri madur! lángtum meiri madur!

Guttormur
(bistari og stampar.)

Hvor skollinn þá?

Olafur.

Jeg held það sé asensint, held jeg!

Ragnhildur
(glød.)

Æ! það er máske hann monsjør Narfi minn.

Olafur.

O! nei, nei!

Nikulás
(í hálfum hljódum.)

Komi hann hér aldrei, (nú er klappad á dyr, Ragnhildur lýkur upp.)

## Fjórda atridi.

Dalstæd, Guttormur og Nikulás.

Dalstæd
(kémur inn seint og sidsamlega.)

God Aften, min kjære Guttormer! (til hinna) godt Aften, godt Folk! bliv ikke vred at jeg gjør Dem Uleilighed saa sildig.

Guttormur.

Verid þér ætid velkomnir, kaupmadur gódur! og sannast það nú, ad opt kemur gódur þá getid er.

Dalstæd.

Mener han det til mig, kjære Guttormer! saa takker jeg ham for hans store Hoflighed; men hvad talte De om mig, om jeg maa spørge? De har ventelig talet om Deres Regning og hvad jeg skylder; See der! (tekur upp úr vasa sínum Contrabókina og fær

Guttormi) efter denne Regning, bliver jeg ham, min kjære Guttormer! skyldig den Summa: 123 Rbdl. 45 Sk.

Guttormur.

O! því meir, því betra! það er á vísum stað, (til Nikulásar) taktu við og hyrdtu hjá öðrum skrudd-um mínum, sem þú hefur undir höndum.

Dalstæð.

Ja vel! men see først efter Regningen, og det kan du bedst, Nikulás!

Nikulás.

Bædi kenduð þér mér að reikna og gáfuð mér líka ritreglurnar, þó jeg sé nú búinn að gleyma því (tekur við Contrabókinni.)

Dalstæð.

Ridt Regler, hvad er det? har jeg lært dig at ride Nikulás minn!

Nikulás.

Nei, jeg meina skrifreglurnar.

Dalstæð.

Naa, naa! jeg forstaaer det ikke paa Islandsk; nu skal du til Straf ikke tale andet med mig end Dansk, thi jeg veed det kan du.

Nikulás

(lítur til Guttorms.)

Er það til látið?

Guttormur.

O! meir enn svo, því jeg skil dönsku, þó ekki geti jeg talað hana, enn þó vildi jeg að born min yrðu þar í föðurbetringar, með öðru fleiru.

Dalstæð.

Nikulás kan jo lære dem det allerbedst.

Nikulás
(andvarpar.)

Jeg har og begyndt med lille Ragnhilder, men det gaaer mig ikke just saa heldigt som jeg ønskede.

Dalstæd
(lítur til Ragnhildar.)

Da seer dog Pigen ikke saa tosset ud.

Nikulás.

Det just ikke, men . . .

Dalstæd.

A, a! Ret! jeg forstaaer en halvkvædet Vise, du har Lyst til Pigen, Nikulás!

Nikulás.
(andvarpar.)

Guttormur
(tekur hann í arminn.)

Er ekki Narst i ydar þénustu?

Dalstæd.

Jo! endnu, vist er han det!

Guttormur.

Er það vænn madur?

Dalstæd.

Jo, jó! det gaaer nok an.

Guttormur.

Er hann Assistent hjá ydur?

Dalstæd.

O, ja! han Assisterer mig saadan som han kan.

Guttormur.

Hvad hefur hann til árlegra launa má jeg spyrja?

Dalstæd.

Han har Løn nok, min Faer!

Guttormur.

Er hann ekki bædi lesandi og skrifandi

Dalstæd.

Jo! saa meget han behøver.

Guttormur.

Er hann nokkud efnugur?

Dalstæd.

Saa nogenledes, eptir hætti, som man siger paa Islandsk.

Guttormur.

Drekkur hann ekki?

Dalstæd.

Nei, undtagen naar han torster.

Guttormur.

Er þad ekki gagn skikkanlegur og efnilegur madur?

Dalstæd

(fortrædelig,)

Jeg klager jo Intet paa Karlen, og jeg er ikke vant til, min gode Guttormer! at laste eller beføre mine Tjenestefolk hos Fremmede; Naar de tage fra mig, saa giver jeg dem det Vidnesbyrd jeg bør efter min Samvittighed, saa at en Husbond efter mig, ikke skal blive narret paa en Skjelm; forstaaer han mig? Monsjor Guttormer!

Guttormur.

Forlátid þér mér, kaupmadur gódur! ad jeg spurdi svo djarflega, enn jeg hafdi þar til vissar orsakir.

Dalstæd.

Saa burde han min kjære Mand! have ságt mig det i Forveien saa havde jeg maaske svared ham mere bestemt, (til Nikuláſar) hør! vil du ikke blive Assistent hos mig igjen, Nikulas! paa et Udliggersted, som jeg har faaet?

Nikulás.

Herr Kjøbmanden har jo en Assistent i Narfe.

Dalstæd

(bistur.)

Jeg taler jo intet om Narfe; vil du blive Assistent hos mig?

Nikulás.

Om jeg faaer Tilladelse,

(bendir til Guttorms.)

Dalstæd

(gamansamur.)

Jo vist! Tilladelse hos Pigen.

Nikulás.

(dregur eptir sér.)

Ja! nei, nei! ja!

Dalstæd.

Det har nok ingen Fare.

Nikulás.

Jeg kan ikke ønske mig en bedre Husbond end denne er.

Dalstæd.

Pokker i Vold med disse Complimenter! siig mig reen Beskeed! Jeg agter at blive min Livstid her i Landet, da jeg er ret godt fornøiet med Folket.

Nikulás.

Og Folket ret godt fornøiet med Kjøbmanden.

Dalstæd.

Jeg vilde ønske at Folket ikke havde Aarsag til andet; men nu har jeg antaget et Udliggersted, og der behøver jeg en redelig Assistent, vil du give dig der til?

Nikulás.

Jeg faaer mig neppe løs, og saa har jeg for det meste glemt at føre Regning.

Dalstæd.

O, Snak! om jeg maae sige; gaae mig i en Hast, Guttorms Regning igiennem, og siig mig, om Du finder der noget at sætte ud paa.

Nikulás.

Jeg har gaaet den løselig igiennem, og finder . . .

Dalstæd

(hidsig.)

Hvad, hvad! er den gal?

Nikulás,

Jeg troer der er 3 L℔ 14 ℔ Fisk for lidet anført, er forglemt.

Dalstæd.

Fy for en Ulykke! er det muligt?

Nikulás.

Behag at see! (sýnir honum reikninginn) min Husbonds Fisk, var paa vor Vægt her: 7 Sk℔ 8 L℔, men her findes ei anført meer end 7 Sk℔ 4 L℔ 2 ℔, altsaa vil der mangle 3 L℔ 14 ℔.

Dalstæd.

Har du selv veiet Fisken?

Nikulás.

Ja! netop!

Dalstæd.

(þeinkir sig nokkud um.)

Ja! det maae jeg undersøge, og det kan jeg let, thi jeg har endnu ikke faaet saa megen Fisk; jeg skal snart komme igien, men imidlertid maae du hverken levere mig Fisk eller roe, Nikulas!

Nikulás.

I Morgen havde jeg dog i Sinde at probere det, og jeg kommer ligefuldt til Dem, thi jeg veed, ad det er ikke Deres Skyld.

Dalstæd.

Hvis Skyld det er, skal vi faae at see; men jeg vil ikke opholde mig længer her for denne Gang, reent og redeligt vil jeg have; Fisker du noget i Morgen saa see til mig, den høieste Priis skal du faae.

Nikulás.

Ja! det veed jeg.

Dalstæd.

(tekur afskeid snøgglega.)

Lev vel allesammen saa længe!

(allir fylgja honum út.)

## Fimmta atridi.

### Guttormur, Ragnhildur, Jón og Olafur.
(koma øll inn.)

### Guttormur.

Nú born! til vinnu! eitthvad ad dudra! letin er satans svæfill, seigir danskurinn. Jón litli! skrifadu út, þad sem þú áttir eptir; (tekur ull uppúr tunnu, og seigir til Olafs) þú skalt tægja, karlkind! og (til Ragnhildar) þú tekur rokkinn þinn, Ragnhildur! (allir taka hvor til sins verks, enn hann sjálfur tekur sér handkamba og ull upp úr tunnunni, og setst nidur vid þá.)

### Ragnhildur
(spinnur og syngur.)

Glatt fyrr enn gelur bokki
og gjorir blundi mein
leik jeg laungum ad rokki
leidindin hlaupa á tein,
enn aldrei fyrir endann sér;
ef væri jeg ordin frúa,
jeg skyldi þér ei snúa,
misjofn sú æfin er.

### Guttormur
(tekur upp eptir henni.)

Aldrei fyrir endann sér!
frú eda fátæk kvinna
fá skalt ad spinna og vinna;
passleg sú æfin er.

### Jón
(tekur upp.)

Aldrei fyrir endann sér!

lifi' jeg vid skrift og lestur,
leikur og skemtan brestur;
misjøfn sú æfin er.

Guttormur

(tekur upp eptir honum.)

Aldrei fyrir endann sér!
leidist þér skrift og lestur
mér litst þú verdir ei prestur;
misjøfn sú æfin er.

Olafur

(volædislega, tekur eptir.)

Aldrei fyrir endann sér!
undir slit á jeg ad tægja,
einginn býdst mér ad hægja
ómagi því jeg er.

Guttormur

(bistur, trampar, tekur upp.)

Láfi ómagi er!
undir slit á hann ad tægja,
agti hann endann á sér.

(Hann kastar kømbunnm reiduglega, og stendur upp med nokkrum svip.)

Þessi leti-gloria setur hroll i allan minn kropp; jeg þoli ekki þetta svartagaulsraul, þetta bannsett skammdeigis-murr, æ! fordæmdra myrkravæl! (syngur med hissugheitum og stampar jafnt á millum med fætinum.)

Glatt fyrr' enn gelur bokki
geing jeg ad vinnu min;
þad hressir, herdir skrokkinn,
hneixlast øll medicin.

(til Olafs)
þú tær!
(til Jóns)
þú lest!
(til Ragnhildar)
þú spinnur!
Þrátt eitthvad gagns til vinnur;
gladvær þá æfin er.
(itrekar sjálfur)
dagvöxtum farsæld fer.
Olafur (volædislega) jeg tæ.
Jón . . . . . . . . . jeg les.
Ragnhildur. . . . . jeg tvinna.
Guttormur: eitthvad til gagns skal vinna,
Olafur, Jón og Ragnhildur: gladvær þá æfin er.

(nú sér á Guttormi ad honum líkar betur, og bætir svo sem vid í sama tón, enn ekki nærri eins, þessu stefi.)

## Guttormur.

Listugt nú líkar mér; því þegar fólk erfidar og keppist vid og vinnur og gjörir eitthvad med gladværd, þá blessast manni tvofaldt betur allur hans verknadur; ánægjan rær med manni á annad bordid, og allt geingur yndislega og skýkur áfram; enn volædi og volgur er eins og grjótbátur á eptir, þó madur rói undir sjálfan daudann, svo kemst hann þó hvorgi undan; mann hrekur undir öllum árum, enn st! . . . st! . . . hann tekur til ad hvessa! hann er ordinn hrædilega hvass úti! st! . . . st! . . . þad er óskaplegt vedur! (til Ragnhildar) fardu út og gjættu ad, hvort þú sérd ekkért til hans

Nikulásar! jeg vildi hann hefdi ekki róid i dag, enn honum var ekki ad aptra, jeg held þad hafi rétt ad honum feigd, þad var þó stór skadi, því hann var þad efnilegasta úngmenni . . . (Ragnhildur fer, enn Guttormur tekur til ad kemba med ákefd og kvedur eitt edur annad erindi út einhvorjum rímum, edur fallegum vísnaflokkum; vid hvorn kamb stendur hann upp og lítur út í gluggann). Hann er ad hvessa! þad er komid rokvidri! jeg hefi þó kennt honum nokkud sjóinn, hann er brádhvass! betur jeg væri kominn í stafninn hjá honum! hvad er ordid af henni Ragnhildi? hún kemur aldrei aptur! (Þessum og þvílíkum ordum fer hann vid hvorn kamb, edur þegar hann gægist út um gluggann, sem ei má þó optar vera enn þrisvarsinnum), nú er sundid ordid bráð ófært; eingin Ragnhildur! Jón! sæktu lánga bátshakann minn og skinnhúfuna mína út í skemmu og flýttu þin! jeg ætla strax ad fara, og þad er þó máske helst of seint, flýttu þin! flýttu þin! (Jón hleypur) hlauptu! (til Olafs) og láttu hann líka taka stjórafærin nýu; (Olafur kastar ullinni og fer, enn Guttormur er í asa med ad búa sig til, hneppa ad sér, binda um hálsinn, o. s. frv.

### Olafur

(kemur inn aptur med fasi miklu.)

Er kominn, blessadur húsbóndi gódur! er kominn! . . .

### Guttormur.

Hann Nikulás?

### Olafur.

Nei, nei! stóra, stóra madurinn!

Guttormur

bistur og ákafur.)

Hvor? hvad ertu ad þvætta? hvor er kominn?

Olafur.

Asin — blessadur húsbóndi! — stint.

Guttormur.

Hvorn skollann vardar mig um hann? kannstu ekki hann Jón?

Olafur.

O! ekki!

Guttormur

(mjøg bistur og stampar.)

Þú skyldir . . . (ætlar ad fara út, enn í dyrunum mætir hann Ragnhildi, er leidir eptir sér Narfa, sem er drukkinn og vaggrar.)

## Sjøtta atridi.

Narfi, Ragnhildur, Guttormur og Olafur.

Narfi.

Sæli nu! mousjor Guttormer mín! skelfilegur hvass-vedur-storm, og kold uppá kinn!

(kvedur aulalega og reikar á medan.)

Pá húsene biler hræsvelgur
hafter biler sudlægur,
skablen miller skabthúngur
Skeljúngs hil er útækur.
Já! ben og daud! útækur!

Guttormur

hastur.)

Eru þeir komnir ad?

Narfi.

Bolvad fare thju thad! ikke uten strákurinn

Nikulás, med thretten udi lut, hann hafdi nær thvi dræbet sig, thvi hann vilde ikke kasta út; thi strákinn er réttur gapur; enn fjøgramannis farid hans herra mins, thad heldur jeg skollinn hafi tekid; thar vare fimm uppá og vanter alle sammen.

Guttormur.

O! hefur þá ekkért fréttst til þess skips?

Narfi.

Hvad brýtur jeg mig um thad?
 Vel geingur vaggen,
 enn votur er jeg i fraggen,
thi jeg (þreifar utan á sér) datt i leiken hérna, monsjor Guttormer min! og ætladi ad kafna mér, enn stúlken sú arne (bendir til Ragnhildar), skal turker mér hár og lágur, thi nú vil jeg hafur hana strax, ben og daud vil jeg hafur hana!

Guttormur.

Skilrikin verdum vid ad sjá fyrst, og sidan hef jeg nokkra skilmála.

Narfi

(hissugur.)

Hvad? hvad skillerige og skillemale! hvad skradden brýtur jeg mig um thad? thad liggur skraddelige uppá honum monsjor Guttormer min!

Guttormur.

Nei! nú liggur vel á mér, þvi Nikulás er lendtur.

Narfi.

Æ! jeg brýtur mig ekkért um hann, bóndastrákinn thann, og thad er intet at gledja sig ofer; enn hann á ad gledja sig yfir thad, ad jeg vil gjora mig so ringe, ad blifa hans svigasonur.

Guttormur.

Jeg held þad geti ekki talast um þad ad sinni, þvi þér erud of kendir.

Narfi.

Já! dálitid kendir! nokkud svo kendir! enn jeg hafur rigtugt nokk drukkid einn pel konikakk hjá herrann min! thi vid kom i disvumtatsiur út af reikningur, sem stód pá kládabókin, og thá hann sá, at hann hafdi rángt, thá sagdur hann: gjori thjer so vel, monsjor Narfe min! og súpid thjer pá! værut thjer ekki hjá mér, thá væri monsjor Dalstæd kominn út á húsgángurinn fyrir lángur timi sidan, ha, ha, ha!

Guttormur.

Pér meigid þá vera gódur reikningsmeistari.

Narfi.

Ha, ha, ha! jeg reiknar, jeg skrifar, jeg sprekar Dansk, jeg handler, jeg maalar Saltet fransk, jeg vegur, jeg skeinkur, jeg staar vid Disk, jeg forderer Islands Fisk, ha, ha, ha!

Guttormur.

Já! þad er alt saman vel! enn þér lofudud ad sýna mér ydar dókúment.

Narfi.

Doggamento, doggamento! já! ben og daud! (leitar i bádum vösum, og tekur upp eitt þykkt bréfa-veski og leggur á bordid) einginn maa rore vid, ekke snerte, thó thad væri hér einn engill, ekki taka upp á, thvi peníngar ind udi! (leitar med miklu fálmi i vösum sinum eptir gleraugum og finnur þau loksins) minar brillur má jeg hafur uppá nefid, og svo skal jeg lessa mina

attestur fyrir dig, monsjor Guttormer! (opnar bréfa- vesk-
id og tekur þar úr eitt bréf med stóru signeti undir manns
nafni; rýnir mjøg í það og vill fara ad lesa) for . . .
lætst hann ei sjá, tekur af sér gleraugun og nýr, setur upp
aptur) for . . . for . . . grípur þau af sér aptur, og
hrækir á glerid, setur svo upp á ný, og vill fara til ad
lesa) for . . . for . . . for . . . their pokurs brill-
ur, their hafur og svo vokuad i leiken.

Guttormur.

Jeg skal lesa fyrir ydur, jeg sé það.

Narfi

(fær honum.)

Já! blessadur madur min! taktu thá vid, thar á
einhvorstader ad standa monsjør Narfi, heldur jeg,
ha, ha, ha!

Guttormur

(fer ad lesa.)

Foreviseren her af, Monsjor Narfe Narfesen, ha-
ver tjent hos mig med al Redelighed og Ærlighed;
I den Tid han har været i mit Brod, har han ud-
viist al muelig Flid og Paapassenhed mig til For-
deel og Fornoielse udi alle Maader; Hans Redelig-
hed bor hverken den ene eller den anden at paatvivle,
ligesom hans Ædruelighed er ogsaa et sandt Mønster
for enhver. I sidst afvigte 3 Aar han har været
min Assistent, har han i aarlig Gage havt 200 og
50 Rbdl. foruden andre Sportler, som jeg ikke har
regnet, og han med sin Opforsel har mangfoldigen
giengieldt og mig importeret. Jeg priser mig altsaa
hoist lykkelig, om vi i lang Tid maa blive sammen

efterledes, hvilket jeg og ved gode Ord og Tillæg i hans Gage, har formaaet ham til, især da han har af sine egne Midler en ikke ubetydelig Andeel i min Handel.

Datum Budestad den . . . Jan. 1799.

J. R. Dalstæd.

(L. S.)

(Medan Guttormur er ad lesa „haver tient hos mig„ seigir Narfi til Ragnhildar.)

Narfi.

Heyrir thú min Pútelaar!

Ragnhildur

(affidis.)

Verdi þar nokkud af, þá verd jeg kollud: frú Narfesen, ellegar ad minnsta kosti: madame Narfesen.

Guttormur

(er ad lesa J. K. Dalstæd.)

Ragnhildur

(gløð enn þó affidis.)

Ekki er manninum svo illa lýst, ad hann sé ei eigandi þess vegna.

Guttormur.

Þessi vitnisburdur af kaupmanni Dalstæd er órækur, þvi lýgi finnst ekki i hans munni og jeg þekki hans eiginhandar undirskrift.

Narfi.

Hvad seigir thú nú, min góde Guttormur! áttir thú ekki ad skammast thín vid ad begjæra Attestúr af slíkur madur, sem jeg, Narfe Narfesen, blifur (ber sér á brjóst) afenstintur hjá herr kaupmadur Dalstæd?

Guttormur.

Nú ber jeg ei svo mikinn efa á um ydar gódu hegdan og sidferdi, enn mig lángar til ad sjá þá peninga, sem þér þykist hafa á reidum hondum, og i ydar vordslum.

Narfi.

At see mine peninger, det færdu ekke; nei, ben og daud! det færdu ekke, min Guttormer! jeg tók nú ekki nema 200 Rbdli úr minum kassa (tekur upp úr sinni bréstøsku tiu bindi af bankóseblum, og setur fram á bordid) einginn hrører vid, einginn má snerte, einginn taka uppá, einginn má hafur hendur uppá miner peningur! út i hvort bundt eru 20 Rdl., og thad eru 10 bundt, gjora summs summurum 200 Rdl.

Guttormur.

Rétt er þad! enn menn eru ei vanir ad leggja meir enn tiu riksd. i hvort bindi, og þá gjøra tiu bindi 100 riksd. enn ekki 200 riksd.

Narfi.

Gjorir thú mig enn ad lygara, Guttormer! jeg hefur 1, 2, 3, o. s. frv. (telur alla vasana á føtum sinum upp og nidur), lummer udi mine klæder, og geter jeg nú feingid margar ærur thinar, jeg hefur tiu lummur, og der kan jeg ad pota tiu ærum thinum, ef thú hafur meir enn ein; ha, ha, ha!

Olafur

(gjætir vel ad medan hann er ad telia upp vasa sina, enn verdur einhvorrar risu var á vasa Narfa, sem hann hugsar sé vasi, hleypur þvi til hans, þrifur i hann og seigir:)

Hérna er enn þá einn vasi fyrir elleftu æruna hans húsbónda mins.

Guttormur,

(hlær nú dátt.)

Flest strá vilja nú stinga oss nordmenn, þegar Olafur litli er ad snudra eptir veskjum fyrir æru mina. ha, ha, ha!

Narsi.

Fátæklingerne og vesælingerne brúka thad, ad their legga ekki meir enn tiu riksd. udi hvert bundt, enn rikismanden legger alltid i det minste tuttugu riksd. udi hvert bundt, og kongen sjálf leggur aldrei minna enn 190 riksd. thi hann er svo rikur madur; finn thú á thetta tykka bundt (lætur hann þreifa á einum bagganum) og seig thú mig svo, ad thar er ekki meir i, enn lúsadir 10 riksd.

Guttormur

(þreifar utaná.)

Já meira er þad enn vant er ad fara fyrir tiu bankósedlum.

Narsi.

Enn vil hann nú sjá! jeg vil telja eitt bundten, enn (bandar frá bordinu med høndunum) allir saman i burt fra bordid! their má sjá upp á mine peningar, en ben og daud ekke hrøra! (nú telur hann einn bøggulinn, snýr øllum sedlunum á grúfu, og þari reynast tuttugu riksd.) skal jeg enn thá telia eitt bundten?

Ragnhildur

(kemur nokkud nær bordinu.)

Mér þykir alltid gaman ad horfa upp á þegar farid er med peninga.

Narfi
(til Ragnhildar.)

Thjer kan jeg eingin lutur neita, mitt sætasta gimburlamb! en (bandar) dálitid frá bordid! mann getur aldrei vært of varsamur i peningasakir; (Ragnhildur hopar frá, enn Narfi telur eitt bundt enn, og verda þar i sem fyrr 20 sedlar.) Nú er thá monsjør Narfi enn thá lognari! (til Guttorms) skal jeg. telja honum fleiri bundter.

Guttormur.

Nú held jeg ad þess þurfi ekki, þvi jeg sé ad øll eru eins stór.

Narfi.

Aú! svei! (syngur.)
Vivat victoriá!
jeg vorder ofen på!
rider af med Ragnhilder!
min Rolle herlig spilled er
hoppsohsah! nu herr Narfe!
om ni mánudur fær thu arfe:

Thi (til Guttorms) jeg holder mig til hans loford; enn det má hann enn nú vita, at jeg hafur 400 riksd. heima út i min kassa, og thar fyrir utan hreine 900 riksd. út i kaupmadur Dalstæds hondlun, eda stendur thad ekke i attesten, at jeg hafur andil út i hondlunin hans?

Guttormur.

Ojú! þad er meir enn satt, og þad sem hann skrifar, þvi má hvorr madur trúa.

Narfi.

Nú fæ jeg thá Toisen, og jeg tekur hún strax i

vold, og svo ætlur jeg at eige stelpen mér rétt til gamens, og vita hvørnin thad fer fyrir thad førsta; bryllaupid skal ogso haldast strax i Aftes, her (bendir um kring til Tilskuerne) ere Gjæster nok mange, jeg hafur vidimeret theim alle allesamen, og de skal allesamen danse pá mit bryllaup.

### Guttormur.

Varla getur þad ordid, nema þér hafid vigslubréfid med ydur i vasanum.

### Narfi

(affidis.)

Já svei þvi nú! vid þessum skollans grikk sá jeg ekki (bátt) behøver jeg vigslubref, thegar jeg er danskur og mikill rikismadur? slikir menn plaga int ikke ad skipta sér stórt um geistliger skerimonier.

### Guttormur.

Ekki mun prestur annars þylja strax yfir ykkur, fyrr enn hann hefur eitthvad i høndunum.

### Narfi.

Prestinn gefur jeg gódan dag, enn samt getur jeg ekki haldid til stritur vid hann, thvi jeg er int ikke præstakjær; enn eptir sem ekki verdur af bryllaupen i Aftes, tha ætlar jeg mér ad fastna mér stelpen, og skaltu strax, Guttormer min! sækja okkur brennivins flasken din, thi thad má ske under skaaler, pogalær og lykkes skraaler, ha, ha, ha!

### Guttormur.

Brennivin skaltu fá, enn ekki veit jeg hvad jeg á ad seigja um fostuunina þá arna; hún er nú tekin til heldur ad úreldast (fer út, kallar til Olafs) kom þú med ljós! (Olafur fer med þad eptir honum.)

## Sjøunda atridi.

Narfi, Ragnhildur og Guttormur.

Narfi.

(apalega vingjarnlegur vid Ragnhildi.)

Hvornin thiki thjer nú fara, mitt hæsnebein!

Ragnhildur.

Jeg má ekkért lasta.

Narfi

Viltu ekki vitlaust eiga hann monsjor asenstint Narfe Narfasen?

Ragnhildur.

Þegar hann fadir minn vill, þá . . .

Narfi.

Þú skalt hafur einn nýan silkikjól uppá hvorn dag.

Ragnhildur.

Hann held jeg fari mér ekki svo illa, þvi jeg er (litur á sig), og þreisar um sig) svo grønn um mittid.

Narfi.

Thú skalt vel blifa gildari um lifit, thegar vid hofum verid nokkud saman.

Ragnhildur

(kippist vid hrædd.)

Æ, æ! þá fer af mér fallegleikinn.

Narfi.

Nú ætlar jeg, thegar hann fadir thinn kemur, at fastna thig med øllum skerimonier, rétt uppá þádansk.

Ragnhildur.

Á! þad má vera skritilegt, þad þækti mér gaman ad heyra, ef þad gjørir aungvan skada.

Narfi.

Onei! min litla púta! jeg skal strax sýna thier thad, gef thu mér litla loppan thin, (þau takast høndum saman) nú hlustar thú eptir thad sem jeg seigir: „Jeg monsjor afinstint, herr Narse Narsesen, fastner thig, Ragnhildur Guttormsdatter! mér til løggyldrar eiginkvinde, med øllum gognum og gjæðum, eignum og ítokum til lands og vatns, sem thier fylgt hefur, fylgir og fylgja ber ad réttum løgum".

Guttormur

(sem kemur inn med Olafi, undir endann á Narsa festingar-ordum.)

Jeg trúi þad sé verid ad løgfesta þig, Ragnhildur litla!

Narfi

(er enn ad,)

„Fyrirbidur jeg alle og einhvorjum ad yrkja thig edur nota sér, án min vitundar, edur mitt leyfi tilkomi".

Guttormur

(þykir midur.)

Hætti þér, Narfi! þessari vitleysis løgfestu, sem varla hefur sinn maka í heimsku, enn ef ydur er alvara í hug-med dóttur mína, þá set jeg ydur fyrir kosti nokkra og skilmála, og skal allt vera undir komid, hvort þér viljid eda getid þá haldid:

1. Ad þér hættid þessu danska sladri, sem þér af eiginn hugþótta hafid upp á fundid vid landa ydar; til skammar ydur sjálfum mest, erud þér ad begla munninn eptir útlendum þjódum, enn látist

leggja foragt á ydar módurmál, þad líkar mér ekki.

2. Meigid þér afleggja þessi fábjánalegu kompliment, kollakings, vángaveltur, handabad, beudingar, hrygg-jarfettur, magateygjur og fótaspark edur réttara skida-ferd; allt þetta fer oss Íslendskum mjog klaufalega, og þó ydur máske einna lakast; Danskir borga oss Íslendskum eingin laun fyrir ad vera þeirra apa-kettir edur hofnarrar.

3. Skulud þér um hrid svo hegda lifnadi ydar, ad jeg sjá meigi ad hér er ordin ákjósandi endurbót, því sá sem leidréttingunni tekur, um hann er ei or-vænt ad hann komist á réttan veg um sídir.

Narfi

(afsídis.)

Pad seinasta var þad versta, því brád naudsyn þreingir ad (hátt, lætst vera uppvægur); nei, bitur ben og daud! fái jeg int ekki jómfrú Ragnhilder strax, thá blifur thad minn bane, (gapir og másar) jeg tek-ur strax andvarperne, einn súpkind! einn súpkind! jeg fær illt!

Guttormur.

Já, já! enn heldur vildi jeg nú samt veita ydur nokkud ad nærast á; (til Olafs), fardu út, og vittu hvort þú sérd ekkért til hans Nikulásar! (Olafur hleyp-ur, Guttormur skeinkir Narfa eitt staup) hana! takid þér vid svo litlu!

Narfi.

Jeg heldur jeg greberer, (drekkur) skál, skál! (tekur nú uppá sig alvarlegri brag enn ádur) sídan ydur svo þóknast, Guttormur gódur! þá skal jeg aldrei vid ydur edur landa mína tala annad enn mitt módur-

mál; mér er og lasbægt ad sleppa öllu frugti og bugti, því satt ad seigja er mér ordid daudillt í bakinu, (tekur sig um bakid) enn hvortveggja hef jeg gjort, því jeg sá þad var hofdingja sidur, sem nú svo mjög tekur ad tidkast í landi voru; enn ad bída eptir dóttur ydar, þad má jeg ekki, því þad stendur svo á því.

Guttormur.

Hvad liggur ydur svo brátt á? getid þér ei bedid hennar eitt missiri?

Narfi.

Ekki! þad er of leingi; vigslubréfid get jeg feingid strax á morgun, og þad hef jeg ásett mér.

Guttormur.

Stúlkan er enn þá úng og óvön ad mestu, og yrdi þad einginn skadi fyrir hvorugt ykkar, þó hún væri hjá mér enn þá eitt missiri, og lærdi betur hitt og þetta sem búsljórn vidvikur.

Narfi.

þad er satt, monsjor Guttormur! enn þó tidin sé ætid jafnlaung, svo er hún þó ei ætid jafn kostbær, stutt og gott! jeg óttumst, ad ef timar framlida, þá muni kærleikurinn kólna.

Guttormur.

Onei! huggid ydur vid þad, ad góð byrjun hefur alloptast gódan enda, og þar er min hönd! (réttir ad honum) sé allt satt sem vid höfum heyrt og séd, og þér haldid þá fáu einföldu skilmála sem jeg nefndi, þá veit jeg ei hvorn jeg vildi kjósa fyrir dóttur mina heldur enn ydur, enn láid mér ei þad, ad jeg er varsamur, því þad skal vel vanda, sem meigi og alla

æfi á að standa; enn hvornig ætla honum Nikulás liði? já! við skulum tala betur um þetta i kvöld.

---

# Priðji þáttur.

## Fyrsta atriði.

Olafur, Guttormur og Narfi.

Olafur

(kemur inn með siðvanalegu æði.)

Hann er kominn! kominn!

(klappar saman hendunum.)

Guttormur.

Kom hann heim með marga fiska?

Olafur.

Jeg sá aungvan.

Guttormur.

Jeg bað hann þó, ef hann yrði var, þá skyldi hann færa okkur i soðið til gamans.

Olafur.

Máske hann hafi haft það i vasanum þegar hann reið i hlaðið, ha, ha, ha!

Guttormur.

Kom hann riðandi?

Olafur.

Ojá!

Guttormur.

Frá sjónum?

Olafur.

Ojá!

Guttormur.

Var nokkur með honum?

Olafur.

Ojá! og svo ríðandi.

Guttormur.

Var hann og svo ríðandi?

Olafur.

Ojá!

Guttormur.

Hvor er kominn, er það hann Nikulás?

Olafur.

Onei! lángt frá!

Guttormur

(bístur.)

Hvor er kominn, dreingur?

Olafur.

Enn hann kaupmaður Dalstæð, húsbóndi góður! eins og hann lofaði.

Narfi

(honum hnykkir við, afsíðis.)

Svei því nú öllu saman frá hæl til hnakka!

Guttormur

(glaður.)

Við skulum öll saman sem fljótast hlaupa út og taka á móti honum, leiða hann inn til okkar, og láta hann til yndis og skemtunar, munnlega staðfesta sinn' góða vitnisburð um monsjor Narfa, (allir hlaupa nú út, nema Narfi.)

## Annad atridi.

### Narfi
(einsamall.)

(horfir ólundarlegum augum eptir þeim.)

Hlaupid þid! hlaupid þid! og komid aldrei aptur! (hann skimar um) hvad skal nú til varnar verda vorum sóma! heldur vildi jeg ad skollinn sjálfur hefdi ridid i hladid, skjaldan er eymd ein, eitthvad verd jeg ad taka til bragds; (hleypur ad glugganum og leitast vid ad komast út) ekki! ólukku hjornleysid i Islandi! allt er rigneglt! (hleypur nú fram ad Tilskuerne) sleppid þid mér út einhvorstadar hjá ydur! hérna! þarna! (hleypur fram og aptur med ædi) ekki, ekki! illa launid þid nú staupin, og eins og þid erud mennirnir til, þiltakindur! (ædir frá einum til annars) láttu mig lagsmadur! (til eins kvennmanns) lofadu mér upp undir hempuna þina! (til annars) setstu ofan á mig! (heyrir til Dalstæds og Guttorms utan fyrir) ó, ó! miskuni sig einhvorr yfir mig! (hleypur nú um allt sem hálfgalinn, og skimar eptir hvorri smugu; loksins skridur hann á fjórum fótum undir bordid, enn fæturnir standa lángt út undan, og þad sér hann) æ! nú vildi jeg, jeg ætti mér oxi, ad hoggva af mér ólukku fæturnar. (Heyrist æ gloggvara og gloggvara til Dalstæds og Guttorms, sem eru fyrir utan; Narfi hleypur undan bordinu aptur, og allt um kring sem ærr og ódur, gjorir sig stundum liklegan til ad stokkva út yfir mannhringinn, og svo út, enn stundum upp i loptid, enn þá hvorugt þetta tekst, stansar hann med eitt svo sem médlaus og seigir:) mótgángs jel þá adfer ort, undan má ei flýa! (i þessu kemur hann auga á

ullartunnur Guttorms, hleypur til strax, og ofan í adra þeirra, enn steypir annari yfir høfudid, þegar hann grípur til þessa óskaráds, seigir hann til Tilskuerne) ekki er undir einum skjól, annan stein má finna! (enn þegar hann er búinn ad fela sig í og undir tunnunni, kallar hann út um samkomurnar og seigir til Tilskuerne) seigid þid nú ekki til mín, ólukku kindurnar! (þetta mælir hann, med svo háum og pípandi tón, ad Dalstæd og Guttormur meiga heyra, og hafa þeir þad til marks á sinni inngaungu.)

## Þridja atridi.

**Dalstæd, Guttormur, Ragnhildur, Jón og Olafur, koma nú inn hvorr eptir odrum.**

**Guttormur.**

Giorid þér svo vel, kaupmadur gódur! og setjid ydur á stólinn, (Ragnhildur tekur stól til kaupmannsins.)

**Dalstæd.**

Tak, Tak! (munter) nu har jeg to behagelige Ting at fortælle Ham, Monsjør Guttormer!

**Guttormur**

(og svo gladur.)

Og jeg hefi þann þridja gledilega hlut ad seigja ydur; þá er allt þegar þrennt er!

**Dalstæd.**

Godt! det er da det første, at Hans Vinnemand Nikulás, har reddet fem Menneskers Liv, som alle vare paa mit Skib.

**Guttormur**

(enn þá gladari.)

Þad hefur verid í ofsa bilunni núna, enn hvornig skedi þad?

Dalstæd.

Veiret var forskrækkeligt! Bevar os! just som det stormede allermest, vare mine Folk midt i Sundet; Stormen splitter strax Seilet i tusinde Stykker, knækker Masten tvers over, brækker dem to Aarer i Stykker, og i det samme kommer der en himmelhøi Brænding, skyller og sætter Skibet med Folk, Fisk, Aarer, Tong og alt hvad der var indenbords, imod Klippen, og slaaer det i Øjeblikket i Spaan; men ret ved et stort Guds Underværk, komme alle Folkene op paa den høie Steen, som kaldes „Høysen", der stillede de dem Alle sammen, og snoede sig om hinanden, at de desto bedre med forenede Kræfter kunde staae imod de skummende Bølgers rasende Anfald, som med dundrende Slag brød dem om Brystet.

Guttormur.

Hvada skelfing er að heyra þetta!

Dalstæd.

Der stode da Folkene, og stred i Dødens Angest, udi al den græsselige Orkan, indtil Vinden sagtnedes lidt; Ved samme Tid gik jeg just med min Kikkert i Haanden op paa Høien ved Kjøbstedet, for i Raadvildhed at see efter mine Folk, som Deres Nikulas, — thi han var just landet —, sagde at havde gaaet efter ham ind i Sundet, men siden havde han ikke seet dem. Jeg stillede altsaa min Kikkert ud efter Sundet, og stirrer, og stirrer, og til ubeskrivelig Lykke, hvad tænker han? min Faer! (tekur hann af ánægju í höndina) kommer jeg Øine paa noget Sort paa det forbandede Skjær, (tekur sig aptur) Onei! forlad mig! paa det velsignede Skjær. Jeg lægger

mig derpaa flad ned paa Jorden, og beder til Himmelen; kort: jeg seer det ere Mennesker.

Guttormur.

(hrópar af innilegustu gledi.)

Æ, hamingjunni sé lof! æ blessadur veri kikirinn ydar, og þér sjálfur blessadir yfir alla blessan!

Dalstæd.

Jeg kikkede end nu lidet, og jeg kunde tælle dem alle fem, og end ydermere, jeg syntes de vinkede ad mig med Armene og Hovedet; ja! virkelig forekom mig det saa.

Guttormur

(klökkur.)

Þetta er rétt grátlegt ad heyra.

Dalstæd.

Jeg stod strax op, løb ad Stranden til, og ved ethvert Skridt var det ligesom jeg hørte dem raabe mig i Hælene: kom! kom! hjelp os strax, før end vi doe!

Guttormur.

Audheyrt er, ad rikt hefur þetta búid ydur i skapi, og nærri hefur þessi aumkunarlega sjón geingid ydur til hjarta.

Dalstæd.

Jeg kom til Stranden, fortalte hvad jeg havde seet, gik fra en Mand til den anden, bad, græd og bod saa mange Penge, som de kunde tælle, og saa Traktement som de vilde have, naar de kom til bage; men Ingen turde vove sig ud i den flyvende Storm; Til sidst kom jeg der, hvor Nikulás var, og bar Fisken op af sit Skib; jeg fortalte ham Sagen kortelig, han sukkede,

saae ud paa Soen, bed sig i Læberne, saae paa sine Hásætter, og det forekom mig som Taarene stode ham i Oinene.

Guttormur.

Pad er þad betsta hjarta i Nikulási.

Dalstæd.

Nikulas siger derpaa: „hvad seigid þid, piltar minir!" hann er brádöfær, svarede de alle, enn med þér viljum vér fara i lif og dauda; derpaa greb Nikulas alle de nærmeste Skibsaarer og Baadshager, kastede dem i sit Skib med sin Fisk Hulter til Bulter, og holdt Skibet i sin rette Stilling; da han havde staaet et Oieblik og betænkt sig, ret ligesom han maalte de rullende Bolger med Oinene, raabte han: mér finst hann flota, piltar! út, rétt út! og vips! saa rykkede allesammen som een Mánd Baaden ud, sprang op og greb Aarene, og satte fra Landet.

Guttormur.

Máske hann hafi flotad dálitid i þvi sama?

Dalstæd.

O, nei! vist ikke! men enten har hans Mod indbildt ham det, eller og han har gjort det for at sætte Courage i sine Folk; de roede som Karle, og Skibet syntes at gaae midt igiennem de skummende Bølger, og inden kort Tid kunde jeg ikke see dem for Soedrive.

Guttormur.

Ekki hefur hann verid gódur i sjóinn, þegar hann Jón i Naustavik ekki vogadi sér á sínum nýa sexæringi, og vildi ekki vinna sér þá miklu peninga sem stódu i bodi?

Dalstæd.

Jeg bod og saa Nikulas og hans Folk Penge, men han saae fortrydelig til mig og svarede: sú skømm mundi uppi, ef jeg tæki laun á mig fyrir kærleikans verk, og ef illa fer, þá heitir það: ad við hofum drepið okkur fyrir peaingana.

Guttormur.

(sem þykir nú mjøg vænt um.)

Það var prýðilega talað, og geingur það nærri yfir mig af svo úngum manni.

Dalstæd.

Jeg kan ligesaa lidt sige noget Menneske hvad jeg maatte udstaae og martredes hos mig selv, medens de vare borte, som fortælle hvor inderlig hjerteglad jeg blev, da man sagde mig at man kunde see dem komme ansættende til Stranden. Tusinde varme Takfigelser sendte jeg op til Himmelen, og min Siæl blev saa blid, som et Lam, og stærk, som en Løve. Jeg løb til Stranden, og samlede alle Folk, som jeg kunde faae fat paa, for at bjerge dem, men det behøvedes ikke, da de kunde hjelpe sig selv allesammen, undtagen En, som Nikulas maatte bære i Land af Skibet; kort: de ere allesammen i Live, og har de Nikulas at takke for det.

Guttormur.

Gott má af góðum hljótast; enda mun Nikulás ekki hafa tekið steininn i staðinn hjá yður.

Dalstæd.

Jeg fik ham ikke nødt en Skilling paa; kun udbad han sig min Velvillie, om han engang maatte trænge til min Hjelp.

Guttormur.

Pad var ekki óvitnrlegt bragd!

Dalstæd.

Den anden lykkelige Hændelse jeg har havt, er: at da jeg efterveier den liden Kvantitet Fisk, jeg har faaet, og confererer det med Bogen, saa har Fisken mærkelig ynglet, og faaet smaae Killinger.

Guttormur.

Nei, nú skil jeg ekki! rotturnar hafa sleigid sinum tjaldbúdum i stokkunum.

Dalstæd.

O, nei! ha, ha, ha! Rotterne har forøget den til 2½ Sk℔ mere end jeg har virkelig kjøbt og betalt Folkene; og fra Ham har de draget i min Fisketabel 3 L℔ 14 ℔, ligesom Nikulas rigtig nok anmærkede.

Guttormur

(undrar.)

Hvada dlukku völskur eru pad? nú skil jeg ekki.

Dalstæd.

Kan der da ikke være tobenede Rotter til?

Guttormur.

O, nú skil jeg fyrst, kaupmadur gódur! menn hafa lagt i ydar stakk.

Dalstæd.

Endnu forstaaer Han mig ikke; hør da efter! mine Folk, som staae ved Vægten, have afveiet Indbyggerne 2½ Sk℔, som jeg ikke forend nu har vidst af; og da dette er baade Synd og Skam, og jeg hverken vil at min Handel skal blive bekjendt for saa nedrige Streger, og ikke heller vil vide det paa min

Samvittighed, at sidde inde med uretfærdigt Gods fra den fattige Almue, saa har jeg bragt 50 Rbdl. med mig til Ham, min kjære Guttormer! at Han kan dele dem ud efter denne Seddel; (tekur upp úr vasa sinum Notice yfir sina fiskfala) Folkene ere alle i hans Nabolav.

Guttormur.

Þetta er mikid ærusamlega gjort, og minnist jeg mig ei heyrt hafa, ad adrir kaupmenn hafi þetta heidursstrik á undan ydur leikid.

Dalstæd.

Tilfældet har maaskee aldrig truffet dem?

Guttormur.

Visast er þad! enn hvor var skuld i þessari afvigt?

Dalstæd.

O! slette Mennesker.

Guttormur.

Danskir edur Islendskir?

Dalstæd.

Hans egne Landsmænd, Guttormer!

Guttormur.

Skomm þeirra er ad meiri; enn á medan jeg man og hugsa til, hvornin lidur monsjor Narfa?

Dalstæd

(kaldsinna.)

Jeg tænker ret vel.

Guttormur

(saknar nú fyrst Narfa, og spyr Ragnhildi affidis um hann.)

Hvad vard af Monsjør Narfa?

Ragnhildur
(lágt.)

Jeg held hann hafi geingid eitthvad út fyrir sjálfan sig, fadir gódur! enn hann kemur aptur, þvi bréfa-veskid hans liggur þarna á bordinu (bendir.)

Guttormur
(lágt.)

Þá er vel; (hátt til Dalstæds) er' hann ekki i ydar þénustu?

Dalstæd.

Nu er han sin egen Herre.

Guttormur.

Hefur hann ekki i árleg laun 250 riksdali?

Dalstæd.

Det er múeligt, at han kan have havt det.

Guttormur.

Hann er vænn, skikkanlegur, vel ad sér?

Dalstæd.

Det var at ønske, det er bedst for ham selv; (alvarlegur) men hvorfor spørger De saa flittig efter denne Narre?

Guttormur.

Af þvi þér hafid gefid honum svo furdanlega gódan vitnisburd.

Dalstæd.

Den er efter Fortjeneste, efter Samvittighed; synes Dem ellers den er saa fortræffelig?

Ragnhildur.

Ojá! vid höfum lesid hann frá upphafi til enda; hann er med ydar nafni og signeti.

Dalstæd.

Aldeles rigtig!

Olafur

(hleypur til, og tekur kaupmann i handlegginn.)

Er hann ekki asen-stint? kaupmadur gódur!

Dalstæd

(smáhlær.)

Jo, vist, min Dreng! Asen bliver nok det retteste, ha, ha!

Guttormur

(bistur til Olafs.

Vertu ad verki þinu, dreingur!

Olafur.

Þér skipudud öllum okkur ad spyrja um Narfa ádan, og hélt jeg þvi, ad jeg ætti ad gjøra þad eins og adrir, þó jeg væri nidursetningur, (løtrar til verks sins.)

Guttormur.

A hann nokkud innistandandi i ydar høndlun?

Dalstæd.

Det vil han maaskee sige efter hans Regning.

Guttormur.

Og þar fyrir utan kvadst hann eiga 400 riksd. heima i kistunni sinni, og 200 riksd. tók hann upp úr bréfatoskunni þeirri arna, (bendir á hana á bordinu), og taldi okkur framm á bordid.

Dalstæd

(undrar.)

200 Rigsdaler, og det i denne Brevtaske! (affidis) det maae jeg have bedre undersøgt; (hátt) hvor er Narfe?

Guttormur.

Hann kemur strax, hann brá sér út.

Dalstæd.

Da kommer han nok ikke saa hastig igien.

Guttormur.

Vitja verdur hann sinna 200 riksdala.

Dalstæd.

Jeg troer aldrig der ere 200 Rigsdaler.

Guttormur.

Jú, jú! víst og sannarlega eru þeir þar; skodid þér sjálfir! (tekur bréfatøskuna og vill opna.)

Dalstæd

(gripur um hønd honum.)

Nei, nei! for alting lad den ligge; aabn den ikke, befatte Han sig intet med den!

Ragnhildur

(vinsamlega.)

Narfi tekur okkur hérna þad ei illa upp.

Dalstæd.

Nu begynder jeg at lugte Lunten; (til Ragnhildar vinsamlegur og medaumkunarfullur) Men vogt dig, mit Barn! for de falske Mandfolk; vi vil tale om Andet imidlertid, som er os begge nyttigere end Narfe: kan jeg vente mange Varer hos Ham til Sommer? kjære Guttormer!

Guttormur.

Eins og vant er, kaupmadur gódur! jeg brúka ekki hondlun vid adra.

Dalstæd.

Det skal Han have Tak for! baade Han og Andre

som komme til mig, skal baade faae den bedste Priis og det bedste Kjøb.

Guttormur.

Já! þad hefi jeg reynt, og víst er þad, ad ekki mun fólk sækja ad ydur hér eptir sidur enn ádur, þegar fréttist ad þér hafid gottgjort þeim sjálfkrafa vigtina.

Dalstæd.

Mener han det? skulde det ikke disrekommendere min Handel, at jeg har slette Folk i min Tjeneste?

Guttormur.

Ekki óttast jeg þad; enn hvada vørur viljid þér nú helst hafa?

Dalstæd.

Som sædvanlig, Fisk!

Guttormur.

Þann fisk, sem jeg fæ hérna, læt jeg sjálfsagt, enn nokkur skip og bátar gánga frá mér i Naustavik, og þad er leingra i burtu frá ydur.

Dalstæd.

Det er just der, hvor jeg vil oprette et Udliggersted; saa vilde jeg faae Tælle.

Guttormur.

Dálitid held jeg ad jeg fái máske af henni, og jafnmeira enn ádur.

Dalstæd.

Det er brav! nu Uld? jeg byder en Rigsdaler Foring, i det mindste.

Guttormur.

Þvi er nú verr og midur, ad helst oflitid er til

af henni; jeg hefi varla meir enn vinna þarf upp á mig og fólkid.

Dalstæd

(litur eptir þeirri ull sem Guttormur er ad kemba, og eins þeirri sem Olafur tær.)

Er den Uld, Guttormer! ikke for god til Folkene? den er snart den bedste jeg har seet.

Guttormur

(gamansamur.)

Vid þiggjum þad lika þó þad sé dálitid gott i því sem utan á okkur fer; ha, ha, ha!

Dalstæd.

Er al hans Uld lige god? Guttormer! lad mig see, jeg faaer Lyst til den.

Guttormur

(bendir til túnnunnar.)

Jeg átti ad eiga litinn hnodra i tunnunni heim arna.

Dalstæd.

(svo sem undrandi.)

Tvende store Altonder af bedste Uld, hillemænd! (tekur Guttorm i arminn) kom, kom! lad os see paa den, vi kan maaskee komme i Accord, enten for Penge, eller for anden Uld der er slettere men fuldkommen god til Søvanter.

(Þeir bádir og Ragnhildur gánga nú ad tunnúnni, Guttormur tekur efstu tunnuna ofan af, og þá stendur þar Narfi fyrir og hvessir augun heldur enn ekki.)

Guttormur.

Nei, nei! eitthvad býr undir.

Dalstæd.

Er du der, Karl!

Ragnhildur.

Æ, æ! nú er jeg hlessa!

(allir í einu hljódi.)

(Allir stara sídan nokkud á Narsa, enn hann stendur skammfullur, og horfir á hvvrnin hann geti komist upp úr tunnunni.)

Dalstæd.

O, nei! bliv kun i den spanske Kappe; den klæder dig ret godt! jeg tvivler slet ikke paa at du har havt dine vigtige Grunde til at indpakke dig i en Tonde, maaskee for at kunne igjennem den see hvem der tog dine 200 Rigsd., som du dog ventelig har glemt i en Hast at indpakke med dig. Men hvor har du faaet de 200 Rigsd. fra? svar!

Narsi

(skammfullur og stamar.

Yd = yd = ydur frá, frá, frá, frá, fé = fé = fékk jèg þá, þá, þá.

Dalstæd.

Du stammer og digter paa engang; begge Dele vise tydelig at du lyver.

Ragnhildur.

Hann getur ekki talad utan hádonsku.

Dalstæd

(til Ragnhildar.)

Han taler Dansk som en gronlandsk Hund, (til Narsa) hvor har du faaet de 200 Rigsd. fra? (bistur) siig Sandhed, ellers skal det ikke gaae dig godt.

Narfi.

Pad er ekki meir enn þeir tiu riksdalir sem þér gáfud mér, þegar þér skipudud mér burt.

Guttormur.

Hann sýndi okkur ádan tiu bankósedla-bagga, og voru 20 sedlar i hvorjum bagga.

Dalstæd.

Vi kan let see, hvem der har Ret; (til Ragnhildar og Olafs) Bring os Bordet med Brevtasken her hid! saa vil vi aabne den for hans Oine; (bordid setst nú framan fyrir tunnu Narfa, þar eptir bregdur Dalstæd bréfa-veskinu hátt á lopt og seigir til Narfa:) er den ikke det?

Narfi
(i hálfum hljódum.)

Jú!

Dalstæd.

(Brýtur upp veskid, sér sedilbagga hrúguna, og verdur svo sem hlessa; litur ýmist til Narfa, og ýmist til hinna, tekur nú samt eitt búndtid og fyrst ytsta sedilinn utan af þeim 19, sem er rigtugur; enn þegar hann tekur þann næsta, verdur honum af hendingu litid beggjavegna, og þá er þad hreinn pappír; hann litur eptir þeim næsta, og hann er eins; nú getur hann ei ad sér gjørt og hlær; tekur fjórda sedilinn, og bregdur honum á lopt bádumeiginn og seigir:) Her Intet, og der Intet! (hlær nú mjøg dátt, tekur enn nú fimmta sedilinn, sem hina, og bregdur á lopt) Narfe kan i en Hast blive rigere end Grev Schimmelmann, thi af en Bog slet Papir kan han med et Par Snit gjøre sig 192 Bankosedler; (hlær enn nú betur, gripur eitt annad búndt, en kastar

hinu, enn þetta fer allt á sömu leid) Narfes Banko-seddel-mageries Værksted er hierteligt compendiost, det bestaaer alt i en eneste K — n — i — v. Kniv, (hlær nú rétt hjartanlega, enn á medan hann hefur verid ad þessum sedlalestri, er Narfi allt af ad lædast med hendinni ad bréfa-töskunni, til ad ná þadan vitnisburdi Dalstæds, og loks tekst honum þad; enn ádur hann geti hirdt hann fullkomlega, verdur Dalstæd þess var, og hrifs-ar þetta dókúment af honum aptur.)

Narfi
(daudhræddur, hrópar og bidur.)

Æ, æ! vægid mér nú í allra krapta nafni, kaup-madur gódur!

Dalstæd.

See her! her har vi ventelig Narfes Geheime-archiv! Jeg skal gaae det igiennem; (til Guttorms) Tag imidlertid mod Sedlerne, og see dem alle, hver for een igjennem; (Guttormur gjörir svo, og eru þeir allir ónýtir nema þeir ystu; Dalstæd fer ad lesa, smáhlær stund-um, enn stundum hristir hann höfudid) Hvem har skrevet dig denne Attest? (alvarlegur) Det vil jeg partout have at vide.

Narfi
(titrandi.)

Monsjör Þorlákur Arason.

Dalstæd.

Rigtig! jeg kiender hans Haand, men hans Ære skal ikke kiendes af Nogen, thi den er ham fradömt for fem Aar siden; men mit Navn har hverken han eller du skrevet; hvem har gjort det?

Narfi
(titrandi.)

Einginn utan þér sjálfir.

Dalstæd
(bistur og horfir beint framan í Narfa.)

Lyv mig ikke Noget for, Karl! begriber du den Ulykke, du har styrtet dig udi?

Narfi
(titrandi og tvísligandi i tunnunni.)

O! jeg seigi ekkert utan sannleikann; það er svo satt sem jeg . . .

Dalstæd
(lágt med sjálfum sér.)

Næsten skulde jeg troe det var sandt paa alle Trækkene; (hátt til Narfa) siig hvordan det er gaaet til; var jeg maaskee fuld?

Narfi
(sem fyr.)

Pad hef jeg aldrei enn þá séd; enn i fyrra dag ætludud þér ad skrifa undir eitt bréf med nýskornum penna, og reyndud hann ádur á þessu bladi, sem jeg sidan tók, og stakk i vasa minn.

Dalstæd
(hugsar sig nokkud um.)

Jeg troer det er rigtigt som du der siger; (vid sjálfan sig) der lærte jeg dog Noget.

Narfi
(sem fyr.)

Æ, fyrirgefid þér mér þá, kaupmadur gódur!

Dalstæd.

Det skal jeg tilgive dig, at du har forseglet

Attesten med en stor Knap, thi den er ikke bedre værd; men hvor er den rette Attest, som jeg selv gav dig?

Narfi

(sem fyr.)

Pad er lika i bréfa=veskinu.

Dalstæd

(Leitar og finnur þad.)

Her er den sande og virkelige Attest, Guttormer! vil Han høre den.

Guttormur.

Feiginn, herr kaupmann!

Dalstæd

(les.)

„Foreviseren heraf, Narfe Narfesen, har i nogen Tid været i min Tieneste, men da jeg ikke har fundet mig tient med hans brugte Opforsel ved min Handel, giver jeg ham herved sin Affked, ønskende derhos, at han for Eftertiden vilde forbedre sig, og imod sine senere Husbonder udvise den Troeskab og Redelighed, jeg hos ham har maattet savne, samt at han beteer sig ærlig imod Enhver han faaer med at handle."

Datum Budenstad, den 28 Jan: 1799.

J. R. Dalstæd.

(L. S.)

Guttormur.

Jeg þakka! hér af getur hvor madur rádid meininguna, og mundu fæstir glæpast á Narfa sem lesid hefdu þennann vitnisburdarsedil á undan.

Dalstæd
(til Narfa)
Tor du sige at du har nogen Andeel i min Handel.

Narfi
(sem fyr.)
Jeg meinti ad jeg ætti þann fisk i ydar hondlun, sem jeg hafdi veigid af innbyggjurunum.

Dalstæd.
Tyvekoster ere dig ikke for gode; I min Kasse skal de aldrig indriude, saa fremt jeg bliver det vaer; men hvordan har det sig med de 400 Rigsd. som du siger at du har i din Kiste?

Narfi
(sem fyr.)
Jeg á þvi sidur 400 riksdali i nokkurri kistu, sem jeg aldrei hef átt kistil; enn eins ætladi jeg ad fara med ad sýna þá, einsog þau 200 riksdali.

Dalstæd.
Du er dog ret en Spidsbube! men hvad drev dig til alle disse Bedragerier?

Narfi.
Æ, æ! mér leitst svo vel á hana Ragnhildi, enn vissi ad jeg mundi aldrei fá hana, nema jeg væri vel efnugur og einhvor nefndarmadur, þvi hvort-tveggja er Guttormur sjálfur; hafid nú medlidun med mér bádir tveir, og fyrirgefid mér! optar skal jeg aldrei koma á ykkar slódir, enn leitast vid og kappkosta héd-an af ad betra minn lifnad; (Dalstæd og Guttormur lita hvor til annars nokkra stund, loksins seigir:)

Dalstæd.
Jeg for min Part har forladt dig det meste i For-

veien, da jeg jog dig bort; men hvad den falske Attest angaaer, da har jeg lært saameget, at man bør være mere varsom med sit Navn, end slænge det hen paa enhver snavset Lap Papir, og naar jeg herefter vil prøve en Pen, skal jeg blive ved det jeg lærte i min Skolegang.

Den, som mig føder, det er Gud, min Herre;
Den, som mig klæder, det er Peter Skræder.

Guttormur.

Þú Narfi hefur enn þá anngvan skada gjört mér; enn þú narradir mig, og ætladir ad svíkja mig, og barnid mitt; tel jeg mér borgad med þeirri lukku sem vid ætid meigum vidurkannast, nefnil. ad þitt áform vard og verdur nú ad aungvu, og skaltu vera kvittur af mér.

Narfi
(mikid audmjúkur.)

Æ! má jeg ekki skrída upp úr tunnunni?

Guttormur.

Ojú!

Dalstæd.

Oja! men jeg vil dog tage hvad mig hører til: Først de 190 Rigsdaler blanke Bankosedler, (tekur þá, og seigir til Olafs:) dem giver jeg dig; du kan bruge dem til at skrive paa; Dernæst tager jeg denne falske Attest; (tekur þad og stingur hjá sér) med ingen af Delene skal du Efterdags narre skikkelige Folk.

(Nú kemst Narfi upp úr tunnunni, enn á medan geingur Olafur, sem verdur yfirmáta gladur yfir sedlunum sem hann tók vid hjá Dalstæd, til kaupmannsins mjøg svo vingjarnlegur, og seigir:)

Olafur.

Kaupid þér nú af mér, kaupmadur blessadur! alla sedlana þá arna, gódu og vænu!

Dalstæd
(brosandi.)

Hvad skal de da koste?

Olafur.

Eins og ullin ádan, einn riksdal fjórdúngurinn bara.

Dalstæd
(hlær.)

Det er Røverkjøb! (tekur í vasa sinn og fær honum einn bánkósedil, enn stíngur hinum í vasa sinn aptur) der har du min Dreng! det er Ret, læg dig efter Handelen, dog ikke den som Narfe har brugt! (nú er Narfi albúinn, og hefur feingid sitt bréfa=veski í vasann, og hatt í hønd.)

Narfi
(audmjúkur.)

Má jeg nú ekki fara?

Guttormur.

Minna vegna.

Narfi
(gladur.)

Jeg þakka ydur ástsamlega fyrir.

Dalstæd.

Du kan gaae din Vei for min Skyld.

Narfi
(enn gladari.)

Ástarþakkir, hjartans herra! (hann kvedur med handabandi enn þó sidsamlega.)

Dalstæd

(í þvi Narfi geingur til dyra.)

Vogt dig, at Sysselmanden ikke faaer Kloer i dig.

Narfi

(sem fyr.)

Hann lætur sér laglega sýslumadurinn sá arna! jeg veit mátann, jeg lofa ad verda hjá honum formadur; ætla þá sé ekki búid?

Guttormur

(þvi Narfi stendur i sjálfum dyrunum.)

Hann er i standi til ad setja þig i tugthúsid.

Narfi

(þykjist nú nokkud sjálfbyrgur.)

Þángad hefur svo margur ærlegur madur komid, og mun koma hneisulaust, ad jeg tel mér þad aungva skömm, enda skal jeg þá, þegar þér komid i kaupstadinn, heilsa ydur og seigja: kondu sæll lagsmadur! (hann bugtar sig og skellir aptur dyrunum.)

Dalstæd

(stendur svo sem hlessa og hærir hofudid.)

Denne Karl troer jeg bliver altid den samme som han har været, og godt om det ikke var Synd at slippe ham saaledes.

Guttormur.

Þegar slikir og þvilikir hafa nokkrum sinnum hlaupid af sér hornin, þá fara þeir ad gánga varsamlegar.

Dalstæd.

Stundom men ikke altid; thi foler forst en Skjelm ingen Skamfuldhed hos sig ved en offentlig Straf, og gjør sig Haab om, at Øvrigheden seer igjennem Fingre med ham, saa kalder jeg hans Omvendelse

et Mirakel; men foragter han derimod den offentlige Straf, og stoler ganske sikkert paa Øvrighedens Bistand, paa Grund af sammes egen Fordeel, saa er Alt fortabt, og en enkelt Skjelm bliver en dobbelt Skjelm.

Guttormur

(hristir høfudid og leggur høndina sér á brjóst.)

Nei! þetta má ei seigjast um vort góda, blessada yfirvald! sei, sei! þad er svo lángt frá, sem kotturinn frá sjostjørnunni!

## Fjórda atridi.

### Guttormur, Ragnhildur, Dalstæd og Nikulás.

Nikulás

(kemur inn, kastar kvedju virdulega á alla, enn Guttormur bleypur í fángid á honum strax og kyssir hann.)

Guttormur.

Já, kondu sæll! kondu blessadur! fimm sálna lifgiafari! oll blessan hefur streymt ad minu húsi, sidan hingad komst; æ! vel kenndi jeg þér sjóinn! skipid þitt er heppnis-skip!

Dalstæd

(vill skilja þá ad.)

Hold nu op!

Guttormur

(gefur ei gaum ad þvi.)

Og þinir sterku handleggir skjóta þvi áfram gegnum bylgjurnar!

Dalstæd

(sem fyr.)

Hold nu op!

Guttormur
(sem fyr ákafur.)

Enn þin adgætni og framsýni eru meira verd enn allt gull og silfur!

Dalstæd
(sem fyr.)

Og hold nu op!

Guttormur
(sem fyr.)

Æ hvad mér i dag ekki veittist sú gledi ad sitja i skutnum!

Dalstæd
(sem fyr.)

Hold dog op!

Guttormur
(sem fyr.)

Og verda hluttakandi i þeim sóma sem þinni manngædsku verdur tédur.

Dalstæd
(sem fyr.)

Naa, naa, hold nu op!

Guttormur
(sem fyr.)

Þá vildi jeg hafa farid med gledi i grøfina, enn þessi gæfa lá fyrir þér, og munu margar fleiri á eptir fara!

Dalstæd
(sem fyr.)

Naa, hold dog op engang!

Guttormur

(sem fyr.)

Æ kondu og kysstu mig betur! jeg þakka þér af öllu minn innsta hjarta, og svo leingi sem jeg lifi, þá skal jeg . . .

Dalstæd

(þrífur þá í sundur med makt.)

Naa, ere I blevne gale? faaer den Flæben og disse Omfavnelser dog ingen Ende! spar Ord, men lad Nikulas see det heller i Gjerningen, som Han mener ham i Hjertet.

Guttormur

(i sinum fyrri hissugheitum.)

Þá fyrstu bón sem hann bidur, skal jeg veita honum, ef mér er mögulegt, nú! . . .

Dalstæd

(gladur.)

Da beder jeg strax den første for os begge to.

Guttormur

(afsídis.)

Nú máske hjartad hafi reist sér hurdarás um öxl; þó veit jeg ad kaupmadurinn er gódur og sannsýnn; (hátt) látum oss heyra!

Dalstæd.

Han skal give Nikulas løs af sin Tjeneste, og tillade ham at blive Assistent hos mig, med 250 Rigsd. aarlig Løn.

Guttormur.

(geingur nú fljótt um gólf, þegir, strýkur vángann og mælir vid sjálfan sig.)

Illa get jeg mist hann, og satt er þad, enn ekki

á jeg að spilla hans lukku, þó hann hafi vistast hjá mér; (hátt og hart og hraðalega) ó, já, það skal vera! fari hann!

Nikulás

(til Guttorms seint.)

Jeg er vistaður hjá yður.

Dalstæd

(til Nikulásar.)

Vil du ikke blive Assistent hos mig? (Nikulás tekur hann afsíðis, tautar eitthvað við hann, tekur í hönd hans, klappar og sýnir alla einlægni) men, Monsjør Guttormer! jeg har endnu en lille Bøn!

Guttormur.

Henni lofa jeg ekki, þó má jeg heyra.

Dalstæd.

Uden alle Omsvøb, min Guttormer! giv da Nikulas din Datter til Ægte!

Guttormur

(afsíðis, geingur um hrið um gólf, klórar sér í höfði, strýkur með fingrinum nefið o. s. fr. talar við sjálfan sig.)

Já, nei! (til Dalstæðs hátt) nei! hann er of fátækur til að setja sig í stand, því 250 ríkisdalir er ei meir enn hann þarf við, til að lifa af.

Dalstæd.

Ja, vel! men mine Betjente vil jeg lønne saaledes, at de ei skal nødsages til at blive Tyve; men hvor mange Penge skal han da have ved Tiltrædelsen?

Guttormur.

Í það minsta 100 ríkisdali til að setja sig í stand;

(Nikulás hrisir høfudid, enn Dalstæd bendir honum med hendinni.)

Dalstæd

(til Nikulásar.)

Kom frem! siig mig hvor mange Penge du har i din Eje.

Nikulás.

I þá tid jeg var hjá herra kaupmanninum, fékk jeg i allt 40 riksdali, þá setti jeg á rentu strax hjá monsjør Hallvardsen, (tekur upp bréf) eins og þér sjáid af þessari obligation, og þar hafa þeir stadid

Dalstæd

(litur nokkud á hann,)

Rigtig! i tre Aar er det sex Rigsdaler, altsaa Summa 46 Rigsdaler; det holder jeg af heller at sætte sine Penge paa Rente, end lade dem mugne paa Kistebunden; hvad har du mere Nikulás?

Nikulás.

Ekkert, utan húsbóndi minn vilji eitthvad greida fyrir mér svo sem i vinnumanns skyni, fyrir þau þrjú ár, sem jeg hefi verid hjá honum.

Dalstæd.

Rigtig, ganske rigtig! nu har vi ventelig nok, (til Guttorms) thi Han giver ligesom andre velbemidlede Folk, 16 Rigsdaler aarlig; altsaa i tre Aar 48 Rigsdaler, disse lagte til 46, udgjor den Summa 94 Rigsdaler. Nu har Nikulas ventelig ogsaa havt en halv Løt, ligesom jeg har ladet mig fortælle, at der gives hos de Mægtige i Landet; (til Guttorms) ikke sandt?

Guttormur.

Hvorugt er rétt, herra! því aldrei fær neinn hálfan hlut hjá mér, og aldrei er jeg vanur ad gefa í laun meir enn hundradskaup nokkrum manni, og hafa þó allir ordid ásáttir vid mig, þegar þeir hafa farid; þar fyrir, þegar hans vinnukaup, sem er eitt hundrad árlega, legg vid hans rentupeninga, sem eru 46 riksdalir, á hann nú í sinni eigu: 58 riksdali, og ekkert meira.

Dalstæd.

Fy, fy! giver Han ikke mere end eet Hundrede eller 4 Rigsdaler i Løn om Aaret, og faaer dog Folk?

Guttormur.

Já, nóg fólk; enn jeg virdi þeim einn bát, eina kú, tvo hesta, sex ær og svo framm eptir, i eitt hundrad, og med þessu læt jeg fólk, sem frá mér fer og giptist, setja saman, og hefur einginn enn þá klagad mig.

Dalstæd.

Ja, det troer jeg nok! paa den Maade saa maae alle takke for, og det er særdeles vel gjort, og jeg undrer slet ikke at Han nu kan faae Folk nok for Hundreds Løn; men lad os slippe alt dette! Nikulás har allerede 58 Rigsdaler hos Ham og Monsjør Hallvardsen, som er en vis Mand; nu veed han ikke, min kjære Guttormer! hvad Nikulás har til gode hos mig?

Guttormur.

Nei! það veit jeg ekki, þess hef jeg aldrei heyrt getid.

Dalstæd

(tekur Guttorm i høndina.)

Naa da! Nikulás har hos mig desuden til gode, og jeg er ham vitterlig Gield skyldig: 50 Rigsdaler, (leggur þá framm á bordid úr vasá sínum) altsaa har han i rede Penge 156 Rigdd., og faaer i Løn 250 Rigsdaler, og nu troer jeg Han ikke har længer Aarsag til at nægte Nikulás sin Datter for Fattigdoms Skyld; har Han noget Andet ud paa hans Characteer at sætte?

Guttormur.

Nei, aldeilis ekkert! lángt frá! (geingur ákaft um gólf og þeinkir sig um, til Ragnhildar) viltu eiga hann Nikulás!

Ragnhildur.

Já, fadir minn gódur! ef þér skipid mér þad.

Guttormur.

(geingur leingi um gólf, fram og til baka, og brúkar øll igrundunar merki.)

Nú vel, svo þá i Herrans nafni! þad skal vera! jeg skal missa ykkur! (til Ragnhildar) taktu i hønd honum Nikulási, ef (til Nikulásar) þú vilt þad; (Nikulás og Ragnhildur takast høndum saman) hreppid bædi þad sem jeg hugsa ykkur! minnist hvad þid vorud, erud og verdid! (leggur sina hønd yfir þeirra handaband) Drottinn gefi ykkur til lukku, vesælingar! (til Ragnhildar) hlauptu nú sem snoggvast út i kistuna mina i skemmunni, og sæktu þángad eina fløsku vins, þvi á þessu góda ári verd jeg ad halda fjórar stórhátidir (Ragnhildur fer.)

Dalstæd
(til Nikulásar.)

Har jeg nú ikke allerede viist dig en Villighed? Nikulás!

Nikulás
(þakklátur.)

Þér hafid gjørt lángtum meira enn jeg kunni ad óska, og meir enn minu þakklæti nemur; gjørt mig ad ydar assistenti, gefid mér óforskuldad 50 Riksdali, og umfram allt studt til, ad eg feingi þann hlut, er jeg mest hefi elskad og ágirust, en (mjøg einlægur) þó er enn þá min bón eptir, þvi allt þad sem jeg nefndi, hafid þér gjørt óbedinn.

Dalstæd.

Det Sidste, nemlig med Ragnhilder, var dog kun en Folge af de tvende Poster, thi da kiender jeg alt for slet til Guttormer, om han havde givet sin Datter bort til en fattig Stymper, der hverken kunde forsørge sig selv eller hende; men hvad fattes dig nu til din Lykke? siig frem, uden Undseelse!

Nikulás
(sem fyr.)

Ad þér vildud taka Ragnhildi einn missiristima i ydar hús, og lofa henni ad vera vid hønd konu ydar, ef hún hefdi vit á ad taka eptir einhvorju, sem hún sér til hennar og fara má betur.

Dalstæd
(lystugur.)

Aha! nu forstaaer jeg, gode Karl! du vil at Pigen skal faae lidt dansk Snit paa sig; maaskee ligesom Narfe Narfesen?

Guttormur
(uppvægur.)

Nei, nei! i hamingju nafni! jeg prótestera, fyrir alla hluti, aldrei eitt bein af henni! hún er barn, únglingur; hún er af íslendskum komin, verdur i Íslandi, er íslendsk, og skal verda pad, ef jeg má ráda; jeg vil ekki vinna pad fyrir alla veraldar-muni, ad hún fari til kaupmannsins, og verdi svo ad danskri Apinju med Narfa apaketti; (hristir höf-udid) nei aldrei! aldrei!

Nikulás.

Óhræddur er jeg um stúlku hjá herra Dalstæd; jeg hefi sjálfur verid hjá honum, og vissi pá betst hvad mér fór fram; enn ekki er pad hans skuld pó einn eda annar . . .

Guttormur
(tekur framm i hissugur.)

Af hvorju kemur pad, ad flestir landar vorir verda eins og úlfar i rød hjá ødrum skógardýrum, og einginn vill né getur haldid pá i vist, eptir ad peir nokkra stund, med leyfi ad seigja, hafa pefad aptan úr donskum; hvad? hvad?

Dalstæd
(brosir vid, og klappar Guttormi vingjarnlega á handlegginn.)

Lidt Tid! lidt Taalmodighed! lille Guttormer! man pleier, troer jeg nok, at sige paa Islandsk:

Vardar mest til allra orda
undirstadan rétt sé fundin.

Til vort grove Pakhusarbeide faae vi først i Almindelighed ikke andet end Udskuddet fra Bonden, det er at sige: det er undertiden saadanne Karle, som en

Bonde ikke er tjent med at holde i sin Tjeneste, enten for Dovenskab, Opsætsighed, Ryggesloshed, eller for en eller anden Uorden; slige Folk give sig altsaa til os, og de blive en Tid lang brugbare, saa længe de troe at Tampen svæver dem over Hovedet som en Comet. I midlertid gives dem dog Leilighed nok til Udsvævelser; Ja! somme avancere endog, og formere deres Boutiqve med nye Laster. Vi nodes da til at give dem deres Afsked paa graat Papir; nu maae de gribe til Omslakken, om det ei lykkes dem paa en eller anden Maade at trænge sig ind paa andre skikkelige Folk i Landet, og hertil er en gammel Kjole, et Par forslidte Støvler, en broget Hat, en forjasket Paryk, en ublu Pralen med utalligt mere Tøi, de heldigste Remedier; træffer de paa en enfoldig Mand, hænger dette Utøi saa fast ved ham som Burrer. Intet ærligt Arbeide kan de; med Bettelstaven slingre de til Graven, og der sige de lastefulde Udsvævelser dem det sidste Farvel med en spottende Grinen; forstaaer han nu Touren? Guttormer!

Guttormur

(hlessa undir þessari rædu.)

Mikid held jeg sé satt i þessu.

Dalstæd

Men, blive alle som komme til os, Prakkere, hvorfor er da ikke ogsaa Nikulás bleven til en Skielm? ere ikke Arne, Bjarne, Kristjan og David ret kjønne Folk, skjondt de ere hos Danske?

Guttormur.

Jú vænir menn eru þad og efnilegir, og hafa þeir óneitanlega tekid stórum framførum, þar sem þeir eru;

(til Ragnhildar, sem kemur inn með vínfløskuna og gløs) nú vel! viltu, barn mitt! fara til kaupmanns Dalstæds?

Ragnhildur

(einfaldleg og einlæg.)

Nei! jeg vil fara til hans Nikulásar.

Dalstæd.

Du forstaaer os ikke, min Pige! (brosandi) Nikulás agter at fare til mig.

Ragnhildur

(lítur til Nikulásar góðmótlegum augum.)

Þá held jeg að jeg vilji og svo fara.

Dalstæd.

Nu, saa ere vi jo allesammen enige! nu er der Intet til bage, uden (til Guttorms) at smage hans gode Viin til Afsked; (Guttormur skeinkir á sjøgur gløs) Jeg er saa oprømt i Dag, thi jeg synes Alting har faldet mig saa lykkelig ud; Fem Menneskers Liv er reddet som ved et Mirakel; Jeg er kommen efter et Bedragerie, der er skeet paa min Æres Bekostning; Jeg har renset mit Huus fra et Skarns-Menneske; Jeg gjør mig et vist Haab om at have faaet en duelig Assistent i Nikulás; Jeg flatterer mig med at have været Drivefieder til et Par unge smukke Folks lykkelige Forening, og det med saa ringe som ingen Bekostning; (Guttormur réttir honum glasið) hvor er det hierteglædende at see sine Medmennesker lykkelige! nu skal vi da alle klinke som een Mand, drikke og ønske de unge Folk til Lykke og Velsignelse! (allir hringja með gløsunum með glødu bragði.)

Dalstæd.

Til Lykke og Velsignelse for det unge Brudepar!

Guttormur.

Þeim úngu brúdhjónum til lukku og blessunar!

bádir undireins

Nikulás.

Astar = og elsku = þakkir!

Ragnhildur.

Jeg þakka hjartanlega!

bædi i einn

(Þeir drekka allir og Dalstæd tekur hatt sinn.)

Guttormur.

Drekkid út úr ydar glasi, herra kaupmann! (fær honum þad aptur.)

Dalstæd

(tekur vid.)

Kunde enhver Retskaffen føle (leggur høndina á hjartad) hvor sødt det er at gjøre godt, saa bleve ufeilbarlig alle Mennesker gode. Til Taksigelse! (hann drekkur) adieu! (bugtar sig sidsamlega fyrir øllum, og geingur hægt út, enn hinir fylgja á eptir med ljós.)

## Þeir sem leika, eru:

Brandur, fjáður bóndi.
Valgerður, kona hans.
Jón, sonur þeirra.
Guðrún, dóttir þeirra.
Vigdís, vinnukona.
Guðmundur ýngismaður á Sandi, elskar Guðrúnu.

## Fyrsta atridi.

### Brandur og Valgerdur.

**Brandur**

(kemur inn og talar vid sjálfan sig.)

Mér er farid ad leidast ad ekkert sést til piltanna, þeir hafa nú leigid úti í fimm dægur, og vedrid litur svo illa út; (Valgerdur kemur inn) sástu ekkert til skipsins, Valgerdur?

**Valgerdur**

(med undirfurdulegu tilliti.)

Nei! það er kannske ekki ad vonast eptir þeim í kvold.

**Brandur.**

Hvornig er vedrid?

**Valgerdur.**

Hvornig ætla það sé? hann er bálrokinn, svo það er valla geingt vedur á landi.

**Brandur.**

Hvada óskop er ad heyra ad tarna! hvadan á er vedrid?

**Valgerdur.**

Það voru eingin óskop, þegar þú jagadir þá út á ófæran sjóinn í fyrramorgun; láttu þér nú vel lika! það var valla vid odru ad búast enn svona mundi

fara með ergjuna sem í þér er; þú létst einsog vitlaus maður.

Brandur

(hissugur.)

Nú, nú! hvaðan er veðrið á seigi jeg, kona?

Valgerður.

Jeg held það sé sama hvaðan hann er á, hann er á norðaustan (hún fer.)

## Annað atriði.

### Brandur og Guðrún.

Brandur

(sem hefur geingið út, kemur inn aptur og blæs þúngan.)

Það er satt, það er ónota veður.

Guðrún.

Æ, jeg er svo hrædd um hann bróður minn! heldur þú, faðir minn! að nokkur maður hafi líf, sem er á sjó í veðrinu því arna?

Brandur.

Það veit jeg ekki, enn því er øllu hlíft sem Drottinn vill hlífa, Gunna mín! enn það veit jeg, að hvassari var hann, og líka verr staddur, þegar jeg var fyrir klaustur-áttæringnum úr Grímsey.

Guðrún.

Það kunna nú fáir eins að stýra og þú, faðir minn!

Brandur.

Það var nú ekki heldur einleikið með veðrið það.

Guðrún.

Hvornig stóð á því?

### Brandur.

Vid logdum sama haustid og þú fæddist, tíu á áttæringi úr Grímsey í betsta vedri, enn þegar vid vorum komnir svo sem viku sjávar frá eyunni, fór hann ad gánga upp med bakka-korn i nord-vestrinu og gjøra skinnakost á sjóinn, og fyrri enn jeg gat litid vid, var hann ordinn kafþykkur og bálrauk med sama, med svoddan ofsa, ad jeg hef aldrei verid úti i þvilíku vedri, hvorki á sjó né landi; kafalds-mold-osku-hridin var svo dimm, ad vid sáum valla hvor annan innanum skipid, enn frostid svo fjarska grimt, ad allt beingaddadi, sem inn kom; med mestu hardfylgni gátum vid komid upp seglinu, þvi jeg sá þad út um brekanid af forvitru minni, ad hefdum vid ekki komid þvi upp, þá hefdi skipid ekki afborid sjóina, er komu i svo stórum skoblum, ad féllu sem þverhnipt himinhá fjoll, svo mér risa sidan øll hár á hofdi, nær eg hugsa til þess. Svo hleyptum vid rétt á undan; man jeg þad, ad þá bad jeg med andakt, og hafdi þetta vers lágt fyrir munni mér:

O! þér gudir straums og storms
stillid reidi bráda!

enn fordadist ad láta háseta mina heyra þad, svo ekki misti þeir hug og dug, sem þá þurfti á hvorutveggju ad halda; þegar vid vorum komnir, eptir þvi sem eg hélt, út á mitt sundid, kom bilur, sem reif seglid; i sama vetfángi brotnudu tveir keiparnir á sama bordid, og ógnarstór alda tók út einn manninn.

### Gudrún.

Æ, mikil óskapa skelfing er ad heyra ad tarna! nádud þid ekki manninum aptur?

Brandur.

Jeg greip í hann, þegar hann flaut aptur með, og kippti honum inn, og þá skar stjórntaumurinn hérna úr hendinni á mér; þarna er örið enn, sem þú getur séð, og sem jeg mun bera til dauðans.

Gudrún.

Ojá! það er auðséð, enn hvar náðuð þið loksins landi?

Brandur.

Eptir að við alla leiðina frá því hveľsti, aldrei sáum á milli lífs og dauða, lendtum við í Saltvík á Tjörnesi, og þá vorum við, sem nærri má geta, svo ordnir aðsettir, að einginn okkar var sjálfbjarga utan jeg og Þorsteinn á Hnausum, enn tveir láu viku eptir sáraumir.

Gudrún.

Enn hvar af heldur þú að þetta veður hafi ekki verið einleikið?

Brandur.

Hann var með okkur í land, strákurinn hann Eigill, sem var með að grafa upp peningana hans Jóns Stólpa; enn nóttina áður enn jeg fór úr eyunni, þótti mér hann koma til mín, og banna mér að taka strákinn með; hann gekk þar allar nætur einsog grár köttur, og eitt kvöld um vökuna, kom hann upp á gluggann í Sandvík, og kvað þetta: (það á að kveða dimmt og drúngalega.)

Hann tók alla peningana mína
og fyllti upp báða sokkabolina sína;
hann því bleikur helju með skal byggja,
helst til brátt hann selurinn skal tyggja.

Enn jeg hefi trúad svo vel Drottni minum, ad jeg aldrei verd hræddur vid fjandann; þegar jeg var kominn spolkorn frá landi, kom upp fyrir aptan skipid svo stór selur, hvors maka jeg hef aldrei fyrr edur sidar séd; hann ætladi rétt upp i skipid, med ógnar nasalæti, og rak upp svo ámáttlegt gaul, ad okkur vard øllum bilt vid, og verd jeg þó ad seigja, ad jeg var ekki svo skreffingslegur um þær mundir; hann elti okkur, sem vid sáum, þar til hridin skall á, i hvorri eldglæringarnar voru svo miklar i kringum okkur, eins og þegar verid er ad reka járn; enn jeg ætla betst ad koma út aptur, og vita hvort hún Vigga kemur ekki (hann fer.)

## Þridja atridi.

Gudrún einsomul.

### Gudrún.

Mér er svo illt fyrir hjártanu, ad jeg get varla stadid! ef hann Jón bródir minn er drukknadur, og væntanlega er Gudmundur á Sandi róinn med! enn jeg þori ekki ad spyrja hann fødur minn um þad, og ekki voga jeg ad nefna hann, þegar foreldrar minir eru vid, þvi jeg veit þau sjá strax á mér hvad sárt mig tekur til hans, sidan þau hafa svo hreint aftekid þad, ad hann skyldi eiga mig; æ, þad er þúngt, ad vera fátækur! væri hann eins rikur og hann Þórdur á Heidi, mundu þau hafa tekid honum betur; enn nú hef jeg mist bródur minn og kærasta minn, og hlýt nú ad eiga hann Þórd naudug! (hún grætur.)

## Fjórda atridi.

### Gudrún og Vigdís.

(Vigdís kemur inn.)

Gudrún.

Hvört fórstu, Vigdís?

Vigdís.

Jeg fór út ad Heidi ad vita hvort þeir væru komnir ad.

Gudrún.

Voru þeir komnir?

Vigdís.

Þeir komu ad snemma í dag med átta hákalla, gódri stundu eptir þad hann fór ad hvessa.

Gudrún.

Sáu þeir ekki neitt til hans bródur míns?

Vigdís.

Þeir søgdust hafa séd skip, sem þeir sigldu hjá, á hvolsi, enn mennina á kjøli, enn gátu ekki bjargad þeim vegna hákallanna.

Gudrún.

Æ, hamingjan hjálpi mér! hvorjir ætla þeir þad hafi verid?

Vigdís.

Þad søgdust þeir ekki vita.

Gudrún.

Enn þvi skáru þeir ekki af sér hákallana, svo þeir gætu hjálpad mønnunum?

Vigdís.

Honum kærasta þínum þykir allt ofvænt um lifrarbroddinn til þess, ad hann skyldi vinna þad fyrir

nokkurs manns líf, ad skera af sér seilina; honum vard ekki svo litid um á dogunum, þegar lýsistunnan lak; jeg er viss um ad hann timir ekki ad hafa annad enn hákallsstoppu í veitsluna.

Gudrún.

Æ, jeg vil ekki heyra þetta! enn ætla skipid hafi verid stórt?

Vigdís.

Þad gátu þeir ekki sagt, enn þó sagdi einn háset-anna mér, ad sér hefdi sýnst þad líkt sexæringn-um frá Sandi.

Gudrún.

Æ, Drottinn minn gódur hjálpi mér! æ, sæktu mér nokkud ad drekka, Vigdís mín! mér er ordid illt! (hún setur sig nidur, enn Vigdís hleypur út.)

## Fimmta atridi.

Gudrún einsomul.

Svo er þá hann Gudmundur minn drukknadur, hvorn jeg hefi svo hjartanlega elskad sídan vid vor-um born! (hún grætur) hann, sem svo opt hefur heit-id mér ad hann skyldi aungvan kvennmann eiga utan mig; hann, sem lofadi mér grátandi, þegar fad-ir minn bannadi honum ad koma framar hingad, ad hann skyldi aldrei gleyma mér; og hann, sem nú á ad eiga mig, timdi ekki ad vinna þad til ad hjálpa monnunum, ad sleppa hákollunum! ó, mikil mædu og óláns skepna get jeg verid! æ, æ, æ! (rétt í því ad henni ætlar ad síga, kemur Vigdís inn, fær henni ad drekka, og fer svo burt aptur; Gudrún drekkur.)

## Sjötta atridi.

### Brandur, Gudrún og Vigdís.

Brandur

(kemur inn.)

Er þér illt? Gunna litla! miklir ónytjúngar eru þid kvennfólkid! vertu óhrædd, stelpa min! Þórdur minn á Heidi er kominn ad med átta hákalla, og núna lendti skip hérna út i sandinum, og héldu bornin ad þad hefdi verid hann Jón bródir þinn.

Gudrún.

Æ, hamingjunni sé lof! enn hvada skip ætla þad hafi verid sem þeir frá Heidi sáu á hvolfi?

Brandur.

Þad eru ekki adrir til enn hann Gudmundur frá Sandi; þeir réru ekki nema þrennir i fyrramorgun; þad var varla von þad mundi takast betur fyrir honum, þvi hann var sá mesti gapi, bædi i sjóferdum og ödru; þad var ekki stór skadi skedur þó hann færi; jeg held landid standist fyrir þvi; verra var um menn-ina, er hann drap med sér.

Vigdís

(kemur inn i þessu.)

Hann Gudmundur á Sandi er lendtur hérna fyr-ir utan túnid, og bidur um ad ljá sér menn til ad bjarga med sér skipinu undan sjó.

Brandur.

Æ, Drottinn hjálpi mér! æ, þá er hann Jón sonur minn farinn! seigdu þad vid hann, ad jeg hafi aungvan mann ad ljá honum; jeg hef ekki

sótt hann hingad til ad bjarga skipunum mínum, og mun ekki heldur.

Vigdís.

Þú bannar þó líklega ekki piltunum, sem heima eru, ad fara; þad er sagt ad sumir mennirnir séu komnir í opinn daudann.

Brandur.

Þeir hafa nóg ad gjora hérna heima, skiptu þér ekki um þad.

Gudrún.

Æ! lofadu mér út eptir, fadir minn gódur! ad setja med þeim; þad væri synd ad hjálpa ekki mønnunum naudstøddum og hroktum.

Brandur.

Þú skalt hvorgi fara! þig mun meira lánga eptir ad kyssa hann Gvend, enn ad setja med honum; enn fardu út í skemmu, og sæktu tveggja potta fløskuna, sem stendur í handradanum í fatakistunni minni, og fádu mér hana þegar jeg kem út. (Gudrún og Vigdís fara bádar út.)

## Sjøunda atridi.

Brandur einsamall.

Nei, þetta er óbærileg skømm! ekki skal jeg láta skrattann ráda svo vid mig ad hjálpa ekki mønnunum; sá nídingur hef jeg aldrei verid; þad er satt, mér er illa vid hann Gvend, sídan hann fór ad draga sig eptir henni Gunnu, því jeg hafdi ekki í sinni ad gipta hana þeim, sem aungva ætti spjørina fyrir rassinn á sér, enn ekki skulu þó adrir gjalda þess,

(geingur út fyrir dyrnar og kallar) Bjørn! Hallvardur Bigga! komi þid fljótt ad bjarga skipinu hans Gudmundar med mér! hana! flýtid ykkur!

## Attunda atridi.

### Valgerdur og Gudrún.

Valgerdur einsømul
(kemur inn).

Æ, æ! Drottinn minn gódur hjálpi mér! nú er jeg búin ad fullu og øllu, ad missa hann Jón son minn; hann var einasta ellistodin okkar; hefdi jeg mátt nokkru ráda, skyldi hann ekki i þetta sinni hafa farid i himnariki, og nú ofan í kaupid missi jeg hana Gunnu mina i haust, þegar hún giptist; þó er þad lidanlegra, af þvi hann Þórdur er svo rikur; allt fyrir þad er jeg þa ordin einmana eptir.

Gudrún.
(kemur inn.)

Hvort fór hann fadir minn?

Valgerdur.

Hann sagdist ætla út eptir, ad bjarga skipinu.

Gudrún.

Ætla mennirnir séu allir lifandi? ætli þeir hafi ekkert séd til skipsins hédan?

Valgerdur.

Þeir eru nú komnir Gudi á vald; hana Þórdur á Heidi sá skipid á hvolfi i dag; jeg vildi jeg væri steindaud! þad er mér óbærilegt ad missa ykkur bædi, þó er þad af illu skárra um þig, af þvi svo stendur á; (hún grætur vid.)

## Níunda atridi.

Brandur, Gudrún, Gudmundur, Jón, Valgerdur og Vigdís.

### Brandur

(kemur inn hlaupandi.)

Fardu strax, Gunna! og kveiktu upp eldinn og flóadu mjólksopa, handa þeim piltunum, og búdu svo um hann Gudmund í rúminu þínu, enn láttu hina hátta í rúminu vinnumannanna, enn seigdu þeir skuli fara framm í skála, og um hann Jón minn skulud þid búa í rúminu okkar hjónanna; hana! flýtid þid ykkur, og standid þid ekki hérna!

### Gudrún.

Æ! hvada blessun! Herrannm sé lof! þá er hann Jón bródir minn kominn aptur lifandi.

### Valgerdur.

Er þad satt, er hann lifandi? hvornig gekur þad verid?

### Brandur.

Já! vist er hann lifandi, kona! enn flýtid þid ykkur ad því, sem jeg hefi sagt ykkur ad gjöra! nú! (Gudmundur kemur inn og leidir Jón; bádir eru votir og í skinnklædunum, og Jón berhøfdadur).

### Gudmundur.

Hér sé Gud! sæl verid þid øll! hjálpid þid honum Jóni ad hátta, og piltunum sem med honum voru, jeg held þeir þurfi þess med; vertu nú sæll og blessadur, lagsmadur minn gódur! (kyssir hann) og verid þid sæl øll!

Jón.

Farðu ekki svo fljótt á stað, lagsmaður! bíddu dálitið!

Guðmundur.

Mér er ætíð þökk á að vera hjá þér, lagsmaður minn góður! enn ekki ætlaði jeg í vor, þegar faðir þinn skipaði mér út, að hafa hér leingri viðstöðu enn jeg þyrfti; verið þið sæl!

Brandur.

Ætlarðu að gjöra okkur það til minkunar að fara á stað votur og sjóhraktur, út í hríðina?

Guðrún.

Æ! gjörðu honum föður mínum það ekki til ángurs! það er svo hvast og dimmt.

Jón.

Jeg held það sé þakkarlaust þó þið lofið honum að vera, ekki lagði hann svo lítið í hætturnar fyrir mig í dag, og mennina sem með mér voru.

Brandur.

Hvað var það?

Jón.

Ef ykkur þykir það nokkurs vert, þá á jeg honum næst Guði líf mitt að þakka og hásetanna minna; við vorum í sátri í morgun, og rétt í því sama sem veðrið brast á, hljóp stór slíðra á miðskips færið, þegar jeg ætlaði að bera í hana, reið svo mikil alda undir skipið, að í augnabliki hvolfdi undir okkur; við komustum allir á kjölinn, og jeg veit ekki hvað blifði, að skipið tók ekki fleiri veltur; mannvalið! Þórður á Heiði, lá kippkorn norður af okkur; jeg hrópaði til hans, og bað hann í Drottins nafni að hjálpa

okkur, enn hann kvadst þad ekki geta, sökum hákalla-sellarinnar; litlu sídar sáum vid hann vatt upp segl og hélt til lauds; vid töldum nú alla lífsvon úti, Gudmundur lá ad sonnu vestur af okkur, enn jeg vonadist ekki eptir ad hann mundi hjálpa mér, þvi bædi var skipid hans litid, og þarmed gamalt, lika hafdi hann feingid tólf hákalla; enn þegar hann sá hvad um var ad vera, og ad Þórdur sigldi til lands, án þess ad leitast vid ad bjarga okkur, skar hann af sér seilina, brá hnifnum á stjórafærid og kom til okkar, og med þvi mesta snarrædi og hardfylgi sem jeg hefi séd, bjargadi hann bædi mér og öllum hásetunum, þvi hvort augnablik lá vid sjálft, i þvilíku ofsa-vedri og stórsjó, ad hann mundi brjóta sitt skip vid okkar.

Brandur

(sem frá sér numinn, tekur fast i höndina á Gudmundi.)

Jeg hefi gjört þér órétt, vinur! fyrirgefdu þad! jeg á einn hlut i eigu minni, sem jeg get launad þér med manndád þina og lífgjöf sonar mins og háseta hans; þarna eru þá bjarglaunin! taktu nú vid hendi hennar Gudrúnar dóttur minnar og eigdu hana i stadinn; notist þid hvort ödru sem jeg ann ykkur.

Gudmundur

(gladur, kyssir Gudrúnu og þau takast höndum saman.)

Þennann ródur hefi jeg betstann róid. (Gudmundur og Gudrún kyssa Brand bædi.)

Gudrún.

Ætlar þú nú ekki á stad? Gudmundur minn!

Gudmundur.

Kannske þú ætlir ad úthýsa mér?

Valgerdur.

Drottinn launi þér öllum launum fyrir hann son minn, og blessi ykkur bædi! (hún kyssir hann.)

Jón.

Ydrastu nú ekki eptir, lagsmadur! ad þú fórst ekki strax ádan?

Gudmundur.

Ekki finn jeg innvortis hjá mér mørg ydrunarmerki þess.

Vigdís.

Nú þarf hann ekki Þórdur á Heidi ad mótlætast leingur yfir því, ad verda ad láta sýrópspottinn til í veitsluna, sem hann keypti af Hollendskum fyrir duggaravetlingana í vor meljetnu, og ekki ad þurfa ad eyda úr skipsbrauds kvartelinu, sem hann lét fyrir samblandadan sjo og hákollsgrút.

Brandur.

Nú sé jeg þad fyrst, ad þad er betra ad gipta dóttur sína gódum manni og duglegum, þó hann sé fátækur, enn ríkum, ef hann er óvandadur og illmenni; jeg hefi þá trú: ad sá sem ekki sparar líf sitt til ad bjarga ödrum, muni ekki heldur spara dugnad sinn, þegar hann á ad vinna fyrir konu og børnum; enn fardu, Gunna min! og hjálpadu honum bródur þinum og honum kærasta þinum úr skinnklædunum, og láttu þá svo fara ad hátta, og gefdu þeim svo nokkud ad borda, Valgerdur min!

# VIDBÆTIR

## vid fyrri hluta kvædasafnsins, sem hefur fundist sídan þad var prentad.

---

Utlegging þessarar vísu Oveni.

Expressæ tacitum lacrymæ testantur amorem
gignit amor lacrymas, qvis putet ignis aqvas?

Vitna klárar kinnaskúrir
kærleik hulinn þó
ablar tára ást, hvorr trúir
ad eldur fædi sjó?

---

Utlegging þessarar vísu Ovidii.

Si qvoties homines peccant sua fulmina mittat
Jupiter, exiguo tempore inermis erit.

Ljósti vindur Odins øll
illsku lundu búin trøll;

verda mundi vopnlaus þá
varla stundu lángri á.

---

## Utlagt.

Tordner brøle, Storme tude etc.

Þrumur gauli, vindar væli,
vángur skýti, lopt og hof,
bondin sig og bragnar skæli,
Baldurs vidur stóru grof!

---

Ur lopti steypast stødufljót
stórskruggum med,
beljandi vindar býsni ljót
brugga, uppslita jørd og grjót;
eldingin flýgur skadaskjót
skruggunum med;
kolsvartan himin høldar sjá,
hæli er skepnum jørdu á
ei léd.

---

Af eldi logar Ísaland
eyda þýdskum vøtnin há;
hvorutveggju hreppa grand
hvàr er betst ad vera þá?

---

## Um skruggu vedur.

Viljir góla bolverks svín
hedjan emjar fúna;
tiggi sólar trumbuskinn
tekur ad lemja núna.

---

1. Þann nær tíma jeg þeinki á
er þrísti' eg hræddum fæti med
Íslands tetri' í flaustri frá
fram á grænan þorska bed;
2. Úr sinni geingur gledin snögg
geysar aptur sorga þý;
ákast hrynur hvarma dögg,
hjartad titrar brjósti í.
3. Allt verdur ad ama mér,
ángra málin vinsamleg,
alla menn jeg fordast fer
og fordast líka sjálfan mig.

---

Saddir í máta svartblátt ský
selja púdur baukar;
kúlur láta lopti í
líkt sem hrossagaukar.

---

Hvorjn mun gegna
sú háreisti þegna
sem heyrist um stræti

kólfar uppegna
því koparinn megna
með klingjandi læti;
þátt borgir gegna;
við hljóðpípu dregna
að hrottamáls sæti,
stjarnan járnsleigna
stríðsmönnum að hegna
nú stedjar á fæti.

---

Til Ísa Scheving foldar fer
ferðin sú er hættuleg
allir beri hann englarnir
að ekki dreingurinn meiði sig.

---

Ein hefur auðsná
yndi rifið mér frá
kinnrjóð og brún blá,
björt er hún við hvorn snjá;
hringa vildi' jeg fold fá;
falleg ertu, ná ná!
seigðu mér jájá!

---

## Um Kammerherra, er mjög svo var stoltur, enn heimskur og öreigi.

Að lyklinum gáðu á lafi þinu
laus hann dingla sýnist mér,

Hlýddu rádi madur minu
margir gefast þjófarnir;
enn máske þú eigir aungva skrínu
ellegar hún sé tóm hjá þér.

---

## Um einn rafslausan.

Almatýrs er upphaf ljóst
þó endalaus[1] sé og verdi;
eilífur a parte post[2].
plátu reyuist skerdir.

---

## Leitad Grænlands af Dønskum (1786.)

Hid græna skyldi finnast frón
fylkir skipadi hradur:
á øldubirni øskradi[3] ljón,
Orn var stýrimadur.
Þeirra of sólu rómur rís
fyrir rausnarverkin stóru;
þeir sigldu burt og sáu ís,
og svo til baka fóru.

---

## Sköpunarverk djøfulsins.

Einusinni ætladi mann
andskotinn ad smída

---

[1]) þ. e. rafslaus. [2]) eilífur *a p. p.* seigist sá er aungvan enda hefur. [3]) øskradi þ. e. commanderadi, því hljómur sá er lúdurinn gefur, sem brúkast til sjós á stórskipum er líkari øskri enn manna máli.

køttur úr því verda vanns.
veit þad fjøldi lýda[1].
Ref vill ødrusinni sér
semja skollatetur,
Fr . . . þadan ættin er,
ekki tókst þá betur.

---

## Trú, hjátrú og vantrú.

Trú er hvorgi heimi í,
hjátrú varla finna má,
núna vantrú þróast því;
þá er nóg sagt heimi frá.

---

## Réttlætisgydjan.

1. A fyrri tíd hjá brognum bjó
blind réttlætisgydja;
aldrei hana heyrdi jeg þó
hrakmálin ad stydja.
2. Nú hafa virdar vid hana breytt
og veitt henni augun bædi[2];
enn nú fer málid annad og eitt
ei ad réttum þrædi.

---

[1]) þetta er almenn saga á Íslandi. [2]) Sá mikli løgvitringur Hedegaard hendir mjøg svo gaman ad því, ad *Justitia* sé afmálud, med tilbundin augu, og segir ad eigi veitti af, þó hún hefdi auga á hvorjum fíngri; enn nú fer þó ekki hóti betur enn ádur, þá hún var blind.

3. Hvadan ef spurdu, er illt álag?
jeg þér svara brádur:
sinn nú tóman sér hún hag,
hún sinnti ei um hann ádur.

---

## Um stuttklædda stridsmenn (1786).

1. Nú er budlúngs lidid létt
og lidugt sér ad venda;
upp eru lofin bædi brett,
beran skín í enda.
2. Vösum silfur sínum á
síst þeir meiga bera
grana byrdi þýngir þá;
því má slíkt ei vera.
3. Vatnid belgja búkinn í
braudid burt þeir eta;
istrumagar eingan því
ordid tíma geta.
4. Hold er beinum ekkert á,
einsog vofur gánga;
í gráan brúna glittir skjá;
gorvömb bera svánga.
5. Marga um þad meining sér
menn hér flestir gèra,
hví svo lofdúngs léttbúnir
lidsmenn eigi ad vera.
6. Itar flestir eru á því
einum kveda munni:

„ad stridsmenn sjúki fleina í
slýa betur kunni“.

---

## Um strídslid Jøfurs.

I vopnum brakar, budlúngslid
af brædi skaka høfudid;
þeigi spakir fordast frid
fadma nakid hjálmskassid.

---

## Um giptíngu og formælíngu.

Jeg þegar tek mér eda þú
umkomulitlir hríngabrú,
menn seigja: giptir verdum vér,
veit jeg hvad Danskra[1] Gift þýdir.
Adallinn[2] følur formælist
fæ jeg á slíku aungva lyst;
formæling[3] ljótt er Frónsku á;
frjálsum[4] er betst ad lifa þá.

---

## Um sama efni, kvedid til Þóru (Dóru.)

Einhvorr þá vid audarhlad
ita bónord fremur,
ad giptast kalla garpar þad;
géttu hvar af kemur.

---

[1]) Gift á dønsku þýdir eitur. [2]) Følur er adalsins almenni andlitsfarfi og kallast Hof = coleur. [3]) Formæling á íslendsku, bølvun. [4]) Frjálsum þ. e. ógiptum.

2. Gift er donsku eitur á,
ort kann lífi sneida;
gipting minn eg faxa frá
fljótt því gjöri leida.
3. Adallinn (og er þad víst)
ei má giptist kalla;
enn þótt frægur formælist
finn jeg betra valla.
4. Um formælingu fyrrum kvad
fródur hoklaspennir
ad hún finni illan stad;
af því sveia jeg henni.
5. Látínskt ætla jeg ordid sé
eitt i rusli kvera;
Cælibatus og sællist
sýnast skild ad vera.
6. Cælebs medan madur er
menn hafa hyggju létta
sælu lífi lifir sér;
litst mér vel á þetta.

Hún kvad:

Audarná þér einhvor mun
adra lektíu kenna;
„agamon" er ógaman;
ekki er gott ad brenna.

---

## Hvorsvegna kvennmenn aldrei séu dómarar.

Dómarasæti aldrei i
eikur sitja hringa,

því laungum grunur lék á því
þær láti sig undirstinga.

---

## Mansaungs vísur.

Ertu þarna mitt yndi,
auga míns fegurst dýrðarljós!
kom þú nú kát með skyndi
kystu mig fríðust meya rós!
svona þá, seljan banda!
enn svo búið má ekki standa;
kossa þrjá kýs jeg að fornum vanda.

Þrjá hef jeg kossa þeigið
þetta mér virðist ekki nóg;
mjøg hefur mér á leigið
mátti jeg ekki finna ró;
einn jeg mér aptur fala
jeg skal þér hann betala
og reiða jeg þér rentuna án dvalar.

Enn þá er jeg ei mettur
af þinna vara hunángi;
jeg skal þér gjøra glettur,
gleður mig koss þó stolinn sé;
hana nú! fyrir hnuplið valda
hyggju þú' ber ei kalda
auðarbrú! jeg skal fernu gjalda.

Hýr og fögur hringasól
hjálma gleður kvisti,

einsog lifgar liljuból
lystug mána systir.

---

## Engla túnga.

Englar Guds á[1] Ebresku
ordin meinast hneigja,
enn árar tala[2] Íslendsku;
á þad þori jeg deya.

Ef viti er foldu Ísa á
einsog flestir meina[3];
skilja má hvi skrattar þá
skrafa Frónsku hreina.

---

## Hvar af dregst júnkur.

Latinskum af lærdóms sjó
lid hafa Danir þeigid,
júnkur þvi af *Juvenco*
játa jeg rétt sé dreigid.

---

## Nói réttur og snúinn.

Nóa trúin notadi,
sig Nói snúinn rotadi,

---

[1]) *Vide antiqva theol. systemata, de lingva angelorum.* [2]) hid íslendska mál er hart og án efa vel fallid þeim sem pinslir þola. [3]) *confr. antiqvissimas peregrinorum Islandiæ descriptiones quarum meminisse pudet.*

frægur hinn sér flotadi
hvar feigur inn sér potadi í leyni.

---

## Apturfundid úrverk, eptir tuttugu og fjøgra tíma leitun.

Feiginn aptur fann jeg þig,
farsælt var það augnablik;
þig heyrdi jeg kvaka: sig — sig — sig
Sigurdur tak — tak — taktu mik.

---

Að elskan gjørdi einn af tveimur
eda fleirum Grikkja beimur
Pythagóras skrádi skír;
varla er jeg med þeim visdómsklerki,
jeg veit það sannast elskumerki
af tveimur verda þegar þrír.

---

## Um þad íslendska harda á t. d. Máriá.

Skvaldur stæla ali ál —
ábreidu lendingar[1];
hardmæltar úr tali tál
túngur smida slingar.

---

## G. V. kvad.

Þú hefur andann, þad má sjá,
þú færd ljódin dreigid;
enn min hefur leingi músin grá[2]
í moldarholu leigid.

## Svar.

Drekktu, kvad, þá Gautur gaf
gáfu skáldi rika

---

1) Als ábreida er ís. 2) *Musa* er skáldskapargydja.

þad sem fædist anda af[1]
andi[2] verdur líka.
Ráð þad legg jeg baugabrjót
betst ad fornum vanda:
andanum[3] skaltu aldrei mót
ógudhræddur standa.

---

## Þrefold merking ordsins kind.

Visirs bedju veik kind
vasin reisum grætur;
hálfdaud tudda horkind
hornótt nagar rætur;
min bitur mig kind
morgun, kvöld og nætur,
enn lif fyrir lætur.

---

## Stúlkuvísur.

Meyar bára hoskann hal
holda meingi snúa;
freiar tára skuldu skal
skatna einginn trúa.

Um falsi ofna bauga bil
bragnar aldrei þrátti;
Baldur slikt fyrir barna spil
bana lida mátti.

Maklegt þyki mér fjörs ad sann
fár i allan máta;
af því mun jeg aldrei hann
aptur úr helju gráta.

---

Fölnada sé jeg falda rós

1) andi, spiritus þ. e. vín. 2) andi er hér skáldskapur 3) hér tekst andi aptur fyrir vín, og er talad til hans bibliustíl, þared hann tamdi sér geistlegt *studium*

steinameidi hjá;
ádur var fogur, ljúf og ljós,
lífgunar rétta balsamsdós,
meyanna sælast sigurhrós
sefandi þrá;
nú tekur visna urt sem ein
er upprætt af hvossu járni mein réd frá.

---

Okunnugur einginn má
ordin kvenna skilja;
því sem neitad frekast fá
frekast hafa vilja.

---

Svo tiltalar sæfar ljóma svinnust brikin
þundi stála þeigi smeikum:
„Þú ert ekki barn í leikum."

---

### Um St.

Opt hef jeg viljad leita lags
lof um þid ad ræda;
enn nafns þíns fyrstu stafir strax
stifla rennu kvæda.

---

### Derivatio æru.

Aurar æru fædda fá
fofnis ofni teiga;
audur heidur ødru frá
ekki þekkjast meiga.

---

### Staka.

Þá apótekarinn andadist Bjørn
øllum vard mjøg þúngt um;
þeir settu hann nidur Sels í tjørn
og selurinn tók hann, púnktum.

---

## Staka.

Það held jeg yrði bliður bur
og blómlegur í framan,
sem Ásgrímur minn og Ástríður
ættu bæði saman.

---

## Um læknir er sat yfir konu.

Strákar hafa stærstu lukku,
strax skal eg dæmi sýna þér:
bolverkur balsamskrukku
báðum höndum um gull það fer
indælt hjá andarreinum
er eg ei má — það fjöldgar meinum —
þeinkja uppá að þukla fingri einum.

---

Sá sem heitir A og E
með S og K í miðju,
ljúft þeim seitust láti í té
laun fyrir smáa yðju.

Péturs sonur Sigurður hér
sá þér heitast unni,
heilsar konu þinni og þér,
og þeim í forstofunni.

## Leidréttingar og vidauki.

Í fyrri deild blads. 14, er sleppt 2 erindum 78 — 70.

Hefur á stóli hetjan merk,
hendur fram á leigid;
nei, þá hefdi hann höfudverk
haft á næsta deigi.

Ætli hann hafi stýrt á stad
stod frá snotri banga?
nei, um nótt, hvorr þeinkir þad?
þá er allt fullt med drauga.

bls. 281, l. 3. skjótt l. skýjótt.

Í sídari deild hèfur ekki ordid vart vid þær prentvillur sem rugli meiningu, enn lesarans gódfýsi er ætlad ad lesa í málid ef svo kynni þó ad vera; og einkum er hann bedinn ad virda á hægra veg, ad stafsetningin ekki er alstadar svo samkvæm sjálfri sér sem vera ætti.